# DÖNSK MÁLFRŒÐI

EPTIR

H. KR. FRIÐRIKSSON.



ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1857.

Það getur enginn móti því borið, að það er í sjálfu sjer mjög gagnlegt, að kunna hverja helzt tungu sem er, og með því mótinu geta lesið rit þau, sem samin eru á þeirri tungu, sjer til fróðleiks, og jafnvel geta átt tal við útlenda menn, ef svo ber undir, er á þá tungu mæla. Því verður heldur eigi móti haft, að danskan stendur oss Íslendingum í mörgu nær, en aðrar tungur, bæði sökum skyldleika þess, sem er á millum hennar og vorrar tungu, og svo líka þess sambands alls, er vjer stöndum í við Danmörku; enda eru allir hinir menntuðu menn, sem svo eru kallaðir, nauðbeygðir til að nema hana. Sökum þessa hef jeg ráðizt í, að búa til þessa litlu málfræði, sem hjer kemur fyrir almenningssjónir. Þótt bók þessi sje eigi stór, vonast jeg þó til, að hún nægi öllum þeim, er nema vilja dönsku, bæði til að skilja hana, tala og rita stórlýtalaust, eptir því sem slíkt má nema af þess konar bókum. Það eru til ýmsar danskar málfræðisbækur (*grammaticæ*), og hef jeg kynnt mjer þær flestar, en mest hef jeg þó lagað þennan bækling eptir málfræði Rasks heitins, er hann ritaði á ensku, og gefin er út í Kaupmannahöfn 1830 (A Grammar of the Danish Language for the Use of Englishmen, together with extracts in

prose and verse. By Erasmus Rask, Professor and Librarian in the University of Copenhagen, and member of several learned societies. Copenhagen 1830), auk þess, sem jeg hef haft hliðsjón af öðrum ritum hans um dönsku; og kemur það einkum fram í allri niðurskipuninni á beygingunum. Að rjettrituninni til hef jeg fylgt því, sem almennast er, en víða getið þess, þar sem Rask heitinn hefur sett einhverja reglu frábrugðna því.

Enda þótt það hefði, ef til vildi, verið rjettast, að tína saman á einn stað öll málfræðisleg orð, sem í bæklingi þessum eru, og skýra þau, þá sleppi jeg því þó, með því að jeg ímynda mjer, að þau sjeu orðin mönnum svo kunnug af öðrum bókum, að þau þurfi engrar skýringar við, og það því síður, sem latínsku nöfnin standa víðast í sveigum hjá, þar sem hvert orð kemur í fyrsta sinni fyrir.

Að jeg eigi orðlengi meir um þennan bækling, þá eru óskir mínar og vonir um hann þær, að landar mínir hafi hans svo full not, að þeir, sem kaupa, eigi iðrist kaupsins, og þeir kaupi svo margir, að útgefandinn fái sitt.

Höfundurinn.

# FYRSTI KAFLI.

## Hljóðfræði og rjettritun.

### 1. gr. Stafrófið *(Alphabet)*.

Hið vanalega stafróf í dönsku er það, er nú skal greina:

| Mynd. | Nafnið. á dönsku; | á íslenzku. |
|---|---|---|
| *A a* | *A* | a. |
| *Aa aa* | *Aa* | o. |
| *B b* | *Be* | bi. |
| *C c* | *Ce* | si. |
| *D d* | *De* | di. |
| *E e* | *E* | i. |
| *F f* | *Eff* | eff. |
| *G g* | *Ge* | gi. |
| *H h* | *Haa* | ho. |
| *I i* | *I* | í. |
| *J j* | *Jod* | joð. |
| *K k* | *Kaa* | ko. |
| *L l* | *El* | ell. |
| *M m* | *Em* | emm. |
| *N n* | *En* | enn. |

| Mynd. | Nafnið. á dönsku; | á íslenzku. |
|---|---|---|
| *O o* | *O* | ó. |
| *P p* | *Pe* | pi. |
| *Q q* | *Ku* | kú. |
| *R r* | *Er* | err. |
| *S s* | *Es* | ess. |
| *T t* | *Te* | ti. |
| *U u* | *U* | ú. |
| *V v* | *Ve* | vi. |
| *X x* | *Ex* | eks. |
| *Y y* | *Y* | ý. |
| *Z z* | *Zet* | sett. |
| *Æ æ* | *Æ* | e. |
| *Ö ö* | *Ö* | u. |

## 2. gr. Um hljóðstafina *(Vocales; Selvlyd).*

Hljóðstafirnir eru:

*a, aa, e, i, o, u, y, æ, ø.*

*a* er ávallt borið fram eins og a í íslenzku, stundum seint, t. a. m. *Fader* (framb. *Faðer*), faðir, *Kage,* kaka, og stundum snöggt, t. a. m. *Brand* (framb. *Brann*), eldibrandur.

*aa* hefur sama hljóð og o í íslenzku, t. a. m. *Aar* (framb. *or*), ár, *graa* (framb. *gro*), grár, *Straa* (framb. *Stro*), strá.

Athugas. 1. Í fornum dönskum ritum finnst stundum ritað *å*, þar sem alþýða Dana nú ritar *aa.* Og 1743 stakk *Höisgaard* upp á því, að taka þessa mynd upp aptur, og hafa ýmsir haldið því fram, og einn þeirra hinn nafnfrægi málfræðingur Rask heitinn, en allt fyrir það eru það þó að eins fáeinir menn, er því fylgja, og verður þó eigi annað sjeð, en að sú mynd sje í sjálfri sjer rjettari; því að *a*+*a* getur eigi fengið *o*-hljóð.

Athugas. 2. Í útlendum orðum, t. a. m. þýzkum og hollenzkum, sem tekin eru upp óbreytt í dönsku, er *aa* borið fram líkt og a í íslenzku; en það eru eiginleg nöfn, t. a. m. *Haarlem* (framb. *Harlem*), *Haag* (framb. *Hag*), *Aar* (framb. *Ar*).

*e* er ýmist borið fram sem e á íslenzku, eða i; sem e t. a. m. í *her*, hjer, *der*, þar; sem i t. a m. í *ved*, við, *leve*, lifa, og það hljóð hefur það víðast hvar í enda atkvæðis, og þó eigi undantekningarlaust, er Danir segja t. a. m. *Stedet* (framb. *Steðet*); en fast ákveðnar reglur verða eigi um það gefnar, hvar hvort hljóðið skuli við hafa. Stundum, þar sem *e* hefur sama hljóð og i á íslenzku, er það tvöfaldað, og ritað *ee*, er á eptir fer *l*, *m*, *n*, *r* eða *s* í sama atkvæði; en ef einhver hljóðstafur fer næst á eptir samhljóðandanum, svo að hann byrji atkvæði, er *e* aldrei tvöfaldað; t. a. m. *Green*, *Grene*, grein; *meer*, *mere*, meira; *e* er og jafnaðarlegast tvöfaldað í enda fá-einna sagna, t. a. m. *lee*, hlæja, *see*, sjá, o. s. frv. *e* á undan *g* er opt í tali framborið sem æ, t. a. m. *jeg* (framb. *jæ*), *tilegne* (framb. *tilægne*), eigna; sbr. *ei*. Víða er *e* hljóðlaust á eptir langan hljóðstaf; einkum á það sjer stað í sögnum, t. a. m. *faae*, fá, *staaer*, stendur, o. s. frv.

Athugas. þessu hinu hljóðlausa *e* vildi Rask heitinn með öllu útrýma úr riti, og láta hvergi rita það, þar sem það eigi heyrðist.

*i* hefur og tvenns konar hljóð, er ýmist borið fram sem i í íslenzku, ýmist sem í; sem i t. a. m. í *til*, til, *vinde* (framb. *vinne*), vinna; sem í t. a. m. í *Tid*, tíð, *Time*, tími. þegar það hefur sama hljóð og í, er það stundum tvöfaldað, er á eptir fer í sama atkvæði *l*, *m*, *n*, *r* eða *s*, en verður þó einfalt aptur, ef hljóðstaf er bætt við næst á eptir samhljóðandann, t. a. m. *Viin*, *Vine*, vín, *Piil*, *Pile*, ör; en þó er *i* nú miklu sjaldnar tvöfaldað, en áður var. Hvenær að *i* skuli kveða sem i í íslenzku, og hvenær sem í, verða engar reglur gefnar,

nema sú, að í enda atkvæðis skal venjulegast að því kveða sem í.

*o* er ýmist borið fram eins og o í íslenzku, ýmist sem ó, og þó myrkara hljóði, eða meir lokuðum munni, hjer um bil mitt á milli ó og ú; sem o, t. a. m. í *Bog*, bók, *vor*, vor; sem ó, t. a. m. í *Broder*, bróðir, *Tro*, trú.

*u* hefur ávallt sama hljóð og ú í íslenzku, og þó með nokkrum greinarmun, eptir því hvort það hefur snöggt atkvæði, eða langt, t. a. m. í *Grund*, ástæða, hefur það snöggt atkvæði, en langt í *Guð*, guð. það er og stundum tvöfaldað, er *l*, *m*, *n*, *r* eða *s* fer næst á eptir í sama atkvæði, er atkvæði þess er langt, en aldrei í enda atkvæðis, t. a. m. *Huus*, *Huse*, hús.

*y* hefur ýmist sama hljóð og ý (þegar stafurinn er nefndur), og ýmist því nær sama hljóð og u í íslenzku: sem ý, t. a. m. í *byde*, bjóða, *Tyv*, þjófur, og það hljóð þess er vanalegast í enda atkvæðis; en sem u, t. a. m. í *Synd*, synd, *Tryk*, þrísting.

*æ* hefur ávallt að öllu hið sama hljóð og e í íslenzku, t. a. m. *bære* (framb. *bere*), bera, *Værelse* (framb. *Verelse*), herbergi.

Athugas. Rask heitinn gaf þá reglu um *æ*, að það skyldi þar hafa, en eigi *e*, er það væri framkomið af *a*, annaðhvort í dönskunni sjálfri, eða öðrum skyldum tungum, íslenzku eða þýzku; þannig vildi hann rita *kæmpe*, berjast, af *Kamp*, bardagi, *Hjærte*, af því það væri leitt af íslenzka orðinu hjarta, o. s. frv.; en Danir hafa eigi enn tekið upp þessa reglu, heldur fylgja þeir gömlum vana í því, hvar þeir rita *e* og hvar *æ*, án þess nokkur regla verði um það sett.

*ö* hefur tvenns kyns hljóð, ýmist sem ö í íslenzku, t. a. m. *Dör*, dyr, *bör*, ber, sæmir; ýmist því nær sama sem u væri í íslenzku, t. a. m. í *blöd*, blautur, *Död*, dauði, *Söster*, systir.

Athugas. Rask heitinn vildi aðgreina þessi tvö hljóð þessa stafs í riti, og rita ö, er hljóðið væri hið sama og í ö í íslenzku:

en er það hefði hið myrkara hljóðið, vildi hann rita ø, en eigi gjörir þó alþýða Dana neinn mun á hljóði þess í riti.

Athugas. 2. Aldrei vildi Rask heitinn láta tvöfalda neinn hljóðstaf í sama atkvæði e, o, u. Hann skipti og hljóðstöfunum í harða og lina, og kallaði harða: *a, aa, o, u, e.* en lina kallaði hann: *æ, ö, ø, y, i.* Með þessari skiptingu ljet hann þá reglu fylgja, að aldrei skyldi *j* rita á milli *k* eða *g* og hinna linu hljóðstafanna, heldur rita t. a. m. *kær, Köbenhavn.* o. s. frv.; en eigi hefur þetta þó orðið regla meðal Dana; heldur rita þeir ýmist j á undan e, æ og ö, í sumum orðum, en eigi í sumum, án þess sjeð verði, að nokkur regla sje viðhöfð, nema gamall vani.

## 3. gr. Um tvíhljóðana.

Auk hljóðstafa þeirra, er greindir voru í 2. greininni, eru í dönsku þessir tvíhljóðar:

*ai, ei, oi, öi, ui, au, eu, ou.*

*ai* hefur líkt hljóð og æ í íslenzku, en er sjaldhaft í dönsku, og að eins í útlendum orðum, t. a. m. *Faiance,* (framb. *Fæangse*), eins konar postulín.

*ei* hefur og líkt hljóð og æ í íslenzku, t. a. m. *Vei* (framb. *Væ*), vegur, *steil* (framb. stæl), brattur.

*oi* er sjaldan haft í upphaflega dönskum orðum, og mestmegnis í þeim orðum, er tekin eru upp í dönsku úr öðrum tungum, t. a. m. *Convoi*, vernd; hefur þessi tvíhljóður nokkru flágeyflulegra hljóð, en au á íslenzku, eða hið sama og stafirnir sjálfir benda til.

*öi* hefur mjög svo hið sama hljóð og au á íslenzku, t. a. m. *höi,* hár, *Öie,* auga.

*ui* á sjer að eins stað í orðunum *hui* (meðalorpning), *huie,* œpa upp yfir sig af kæti, og *Huien,* ofsakæti.

*au* er jafnaðarlegast borið fram, sem á í íslenzku, t. a. m. *taus* (framb. *tás*), þögull; *Auction* (framb. *Áctsíón*),

sölubing. Í orðinu *flau*, bragðlítill sneypulegur. o. s. frv., hefur *au* opt í tali nokkru myrkara hljóð, svo að það er framborið með nokkru ó-hljóði.

*eu* mun að eins haft í útlendum orðum, og hefur þá í upphafi orðs eða atkvæðis líkt hljóð og eiv í íslenzku, t. a. m. *Eunuch* (framb. *Eivnukk*), geldingur, *Euphonie* (framb. *Eivfóní*), hljóðfegurð, en í endingunni *teur* er það borið fram líkt og u í íslenzku, eða sem hið lokaða *ö* hjá Dönum, enda vilja sumir og rita svo, rita *ö*, en eigi *eu*, t. a. m. *Translateur* (framb. *Translatur*), túlkur.

*ou* hefur líkt hljóð og ó í íslenzku, og þó nokkru myrkara, eða meir blandað ú, t. a. m. *Toug*, taug.

Athugas. Rask heitinn kvað í raun rjettri engan þessara tvíhljóða til vera í dönsku, heldur væri kveðið að *j* á eptir hljóðstaf í sömu samstöfu, þar sem almenningur ritaði *i*, og að *v*, þar sem almenningur ritaði *u*, og því skyldi og rita *j* og *v*, en eigi *i* og *u*, t. a. m. ***höj***, ***tavs***; en sú regla hefur þó eigi náð fótfestu í ritshætti Dana; en fyrir *eu* í endingum orða vildi han láta rita *ø*.

## 4. gr. Um Samhljóðendurna *(Consonantes; Medlyd).*

Samhljóðendurnir eru þessir:

***b, c, d, f, g, h, j, k, l, m, n, p, q, r, s, t, v, x, z.***

*b* hefur í upphafi orðs sama atkvæði og í íslenzku, t. a. m. *Barn*, barn, *bære*, bera; en í miðju orðs og enda samstöfu á eptir hljóðstaf verður hljóðið linara, og líkt og *v* væri, t. a. m. *gribe* (framb. *grive*), grípa, *Kjöb* (framb. *Kjöv*), kaup.

*c* er að eins haft í útlendum orðum, og hefur sama atkvæði og *k*, fyrir framan samhljóðanda, og svo líka

*a, o, u*, en eins og *s* fyrir framan *e, i, y, æ*, t. a. m. *Cneius* (framb. *Kneivs*); *Canal* (framb. *Kanal*), síki; *Condition* (framb. *konditsión*), skilyrði, *Cujon* (framb. *kújón*), mannskræfa; en *Centrum* (framb. *sentrum*), miðdepill, *Cylinder* (framb. *sýlinder*), kefli, *Cælibat* (framb. *selibat*), það að vera ókvæntur. *Ch* er stundum borið fram sem *K*, t. a. m. *China* (fremb. *Kína*), Sínland, en stundum sem *sj*, t. a. m. *charmere* (framb. *sjarmere*), vekja ástarhug, *Chatol* (framb. *sjatol*), einskonar hirzla, eptir því hvernig það er borið fram í þeirri tungunni, er orðið er tekið úr.

*d* er í upphafi orðs borið eins fram og d í íslenzku, t. a. m. *Dag*, dagur, *Dröm*, draumur: en í miðju orðs, enda þótt í byrjun atkvæðis og í enda atkvæðis, ef hljóðstafur fer á undan, er það borið fram líkt og ð í íslenzku, t. a. m. *bade*, baða, *Riden*, reið, *Sted*, staður, *Bröd*, framb. *bruð*), brauð; *dd* í miðju orðs er borið fram ðð, t. a. m. *Rodder*, rætur. Á eptir *l* heyrist það sjaldan, en *l* er tvöfaldað í framburðinum, eða *ld* er framborið sem *ll*, t. a. m. *Stald* (framb. *Stall*), fjenaðarhús. Eins er *d* stundum hljóðlaust í enda orðs á eptir *n*, og eins í miðju orðs, ef hljóðstafur fer á eptir, en þá er n aptur tvöfaldað í framburðinum, t. a. m. *Mand*, (framb. *mann*), maður, *Grund* (framb. *grunn*); en *myndig* (framb. *myndig*), ráðríkur, *kyndig* (framb. *kyndig*), sem kann að einhverju. Fari *l* eða *r* á eptir *nd*, fær d aptur sitt eiginlega hljóð, þótt nokkru linara en í íslenzku, t. a. m. *Forvandling*, umbreyting, *andre*, aðrir. Á eptir *r* er *d* venjulegast hljóðlaust, t. a. m. *Færd* (framb. *fer*), (ferð) breytni. Þó heyrist það í sumum orðum, t. a. m. *Byrd* (framb. *Býrð*), burður, *Byrde* (framb. *Býrde*), byrði, *værdig* (framb. *verdig*), verður.

*f* hefur sama hljóð í upphafi orðs og í íslenzku, t. a. m. *Fader*, *farve*, lita; en í miðju orðs og enda er

það borið fram sem *ff*, ef hljóðstafurinn á undan er borinn snöggt fram, en áherzla þó liggur á honum, t. a. m. *lefle* (framb. *leffle*), kjassa, *Straf* (framb. *straff*), hegning. en sem *v*, ef hljóðstafurinn á undan er borinn seint fram. t. a. m. *af*, af.

*g* hefur í dönskum orðum hart hljóð í byrjun orðs, en lint, í miðju og enda, ef samhljóðandi fer á undan, eða sá hljóðstafur er seint atkvæði hefur, t. a. m. *Gjerning*, gjörningur, *Sag*, sök. Í enda orðs er það borið fram sem gg, ef sá hljóðstafur, sem á undan fer, hefur snöggt atkvæði, og áherzla þó liggur á, t. a. m. *Ryg* (framb. *Rugg*), hryggur, *styg* (framb. *stugg*), ljótur. Á eptir i hverfur það stundum með öllu í framburðinum, t. a. m. *Pige* (framb. *Pie*), stúlka. Í sumum útlendum orðum er að því kveðið í dönskunni líkt og í frummálinu. er hvert orð á heima í; þannig t. a. m. *genere* (framb. *sjenere*). vera til trafala, *Genie* (framb. *sjení*), hugvit.

*h* hefur sama atkvæði og í íslenzku, nema hvað það heyrist alls eigi á undan j og v, t. a. m. *Haab* (framb. *hob*), von, *höre* (framb. *hure*), heyra; *Hjem* (framb. *jem*), heimili, *hvid* (framb. *víð*), hvítur, *Hvalfisk* (framb. *valfisk*), hvalur.

*j* hefur sama hljóð og í íslenzku, t. a. m. *Jul* (framb. *júl*), jól. Sumir rita *i* ávalt, en eigi *j*, þótt á undan hljóðstaf sje, en flestir rita þó *j* nú orðið, enda er það rjettara.

*k* hefur sama hljóð og í íslenzku, nema að því einu, að það er borið fram eins og *kk* væri, í enda orðs, ef næst á undan fer hljóðstafur, er snöggt atkvæði hafi, og þó liggi áherzla á, t. a. m. *Kage*, kaka, *vakle*, reika á fótum, *valke*, þæfa, *Stik* (framb. *stikk*), stingur.

*l* hefur sama atkvæði og í íslenzku, nema í enda orðs, er næst á undan því fer hljóðstafur, er hafi snöggt atkvæði, og þó liggi áherzla á, þá er það borið fram,

eins og *ll*, t. a. m. *Leer* (framb. *lir*). leir, *föle* (framb. *fule*), finna til, *Bal* (framb. *ball*), dansleikur, *al* (framb. *al'l*), allur. *ll* er borið fram með sínu eiginlega hljóði, eins og ll í orðinu milla (á upphlut), en eigi eins og ddl, eins og t. a. m. í kalla, eða öðrum orðum íslenzkum.

*m* er eins og m í íslenzku, nema í niðurlagi orðs, er hljóðstafur sá fer á undan, er snöggt atkvæði hafi, og áherzla þó liggi á; þannig t. a. m. *male*, mala, *Maane*. máni, *Liim*, lím; *Dom* (framb. *domm*), dómur, *Lam* (framb. *lamm*), lamb.

*n* er framborið eins og n í íslenzku, en sem nn í niðurlagi orðs, er hljóðstafur sá fer á undan, er snöggt atkvæði hafi, og áherzla þó á liggi, t. a. m. *Naade*, náð, *Syn* (framb. *sýn*), sjón; *kan* (framb. *kann*), kann, get, *han* (framb. *hann*), hann. *nn* er ávallt framborið eins og nn í orðinu kunna, t. a. m. *lönne*, launa, en aldrei eins og ddn, eins og t. a. m. í orðinu vænn.

*p* hefur enn sama atkvæði og p í íslenzku, en er framborið eins og pp í niðurlagi orðs, er hljóðstafur sá fer næst á undan, er snöggt atkvæði hafi, og áherzla þó á liggi, t. a. m. *Pibe* (framb. *píve*), pípa, *simpel*, einfaldur, óbrotinn; *op* (framb. *opp*), upp, *Lap* (framb. *lapp*), bót. *ph* er haft í ýmsum útlendum orðum, og er borið fram sem *f*, t. a. m. *Philosophie* (framb. *fílosofí*), heimspeki.

*q* er einungis haft á undan *v* og stundum *u* í útlendum orðum, og er þá borið fram eins og k, t. a. m. *Qvinde* (framb. *kvinne*), kona, *Qval* (framb. *kval*), kvöl; *Qvarree* (framb. *kvarri*), ferhyrningur.

*r* hefur nokkru linara atkvæði en í íslenzku, og í niðurlagi orðs líkt rr, ef hljóðstafur fer næst á undan, sá er hafi snöggt atkvæði, og áherzla þó á liggi, en þó miklu linara en rr í íslenzku, t. a. m. *reen* (framb. *rin*), hreinn, *vor*, vor, *spare*, spara; *Kar* (framb. *kar'r*), ker.

*s* hefur sama atkvæði og í íslenzku, nema hvað það

er borið fram eins og *ss* í niðurlagi orðs, er sá hljóðstafur fer næst á undan, er hafi snöggt atkvæði, og áherzla þó á liggi, t. a. m. *Side*, síða, *læspe*, vera blestur. *Mus*, mús; *Pas* (framb. *pass*), leiðarbrjef.

*t* hefur sama atkvæði og í íslenzku, nema í niðurlagi orða, er hljóðstafur sá fer næst á undan, er hafi snöggt atkvæði, og áherzla þó á liggi, þá er það borið fram eins og tt, t. a. m. *tage*, taka. *Sæter*, setur, sel; *Hat* (framb. *hatt*), hattur, *Skat* (framb. *skatt*), skattur. *th* er haft í fáeinum dönskum orðum og ýmsum útlendum orðum, og borið fram eins og t, t. a. m. *thi*, því. *Throne*, hásæti, *Theologie* (framb. *teólogí*), guðfræði, *Mathematik* (framb. *matematik*), stærðafræði. *t* á undan endingunni *ion* er borið fram sem *ts*, t. a. m. *Nation* (framb. *natsíón*), þjóð.

*v* hefur að öllu sama atkvæði og í íslenzku, t. a. m. *Vaaben*, vopn, *have*, hafa.

*x* er borið fram sem ks, en er eigi haft í upphafi orðs, nema að eins í fáeinum útlendum orðum, og er þá borið fram sem s; þannig t. a. m. *Lax*, lax, *strax*, undir eins; *xylographere* (framb. *sýlografere*), skera á trje og prenta síðan.

*z* er einungis höfð í þeim orðum, sem tekin eru úr öðrum málum, og bera Danir hana fram, eins og s væri, t. a. m. *zart* (framb. *sart*), smágjör, viðkvæmur. *Zone* (framb. *sóne*), jarðbelti.

Athugas. Rask heitinn vildi með öllu útrýma úr dönsku riti *c*, *q*, *x*, *z*, og rita hin útlendu orð eptir því atkvæði, sem þau hafa í framburði Dana, rita *k* eða *s* fyrir *c*, *k* fyrir *q*, *ks* fyrir *x*, *s* fyrir *z*, en eigi hafa þó Danir enn tekið þá reglu; en þó rita nú margir *k* fyrir *q*, helzt í dönskum orðum, t. a. m. *Kvinde*, *bekvem*, o. s. frv.; enda virðist alls engin ástæða til að halda þar *q*. *W* á sjer alls engan stað í dönsku, en þó rita þann staf sumir í útlendum orðum, en ávallt er hann borinn fram sem *v*.

### 5. gr. Um áherzluna *(Accentuation).*

Áherzlan í dönskunni er tvenns konar, annaðhvort sein eða snögg; sein er hún t. a. m. í *Barn*, barn, *barnagtig*, barnalegur, *Been*, bein: snögg er áherzlan t. a. m. í *slem*, illur, *hellig*, heilagur, *tækkelig*, þokkalegur.

Áherzlan í dönsku er tíðast á fyrsta atkvæði meginhlutans, svo að endingar verða áherzlulausar, og eins þær samstöfur, sem settar eru framan við, t. a. m. be, ge, o. s. frv., t. a. m. *Gjerrighed*, ágirnd, *tydelig*, ljós, *betydelig*, talsverður, *Ubetydelighed*, smámunir; þó er áherzla opt á athvæðunum *u*, *mis*, *van*, *sam*, *und*, er sett eru framan við orð, t. a. m. *Ulykke*, óhamingja, *Mistanke*, grunur, *vanhellig*, óheilagur, *Samtykke*, samþykki, *undkomme*, komast undan.

Margar eru þó undantekningar frá þessu, bæði svo, að áherzlan getur flutzt, er afleiðsluendingu er viðbœtt, og mörg orð, að öllu eins rituð, greinast að eins fyrir áherzluna, og í sumum samsettum orðum er áherzlan opt á fyrsta atkvæði síðara hlutans, en þó liggur nokkur áherzla á fyrsta atkvæðinu; þannig t. a. m. *Uheld*, óheppni, *uheldig*, óheppinn; *fuldkommen*, fullkominn, *Fuldkommenhed*, fullkomlegleiki; *Forsyn*, forsjón, *forsyne*, útbúa með e-u; *uartig*, óþekkur, *retfærdig*, rjettvís, *Bornholm*, Borgundarhólmur.

Í útlendum orðum er áherzla þráfalt á miðjum orðum, og í sumum á síðasta atkvæðinu þannig t. a. m. *figurere*, vera að eins til sýnis, *catechisere* (framb. *katekisere*), spyrja börn, *Artikkel*, grein, *Natur*, náttúra, *Religion*, trúarbrögð, *Mathematik*, *Karacter*, einkenni, o. s. frv.

### 6. gr. Um rjettritunina *(Orthographia; Retskrivning).*

Rjettritun Dana er í mörgum efnum eigi enn bundin neinum föstum reglum, og margt er það, er hver ritar á

sinn hátt; og margt er það og, sem ritað er öðruvísi í öðru orðinu, en í hinu. Sumt af þessu hefur þegar verið getið um í framburðarreglunum, en að öðru leyti verður lestur og tilsögn að kenna mönnum, hvernig ritað er af alþjóð Dana. Rask heitinn hefur samið nákvæmar rjettritunarreglur í 1. bindinu af „Tidsskrift for nordisk Oldkyndighed, København, 1826," en fáir að eins fylgja þeim, og eru þó hinar einu, er nokkurt samrœmi er í. En bæði yrði það oflangt mál, að taka þær hjer upp, enda ætti eigi við.

Tvö eru þau atriði, er hjer ber nauðsyn um að geta, og skal það nú greint:

1) Danir rita fyrsta stafinn í hverju nafni stóran, og eins í einkunnum og hverju öðru orði, sem haft er í stað nafns; þannig t. a. m. *et Lys*, ljós, en *lys*, ljós, skær; *en Tro*, trú, en *tro*, trúr; *de Danske*, Danir, en *det danske Folk*, *de Gode*, hinir góðu, en *de gode Mennesker*; *mit Ja er lige saa godt som dit Nei*, en *han sagde hverken ja eller nei*.

Fornöfn öll rita Danir litlum upphafsstaf, nema *I* = þið, þjer, og *De, Dem, Deres*, þegar það er haft til að þjera einhvern (þjer, yður, yðar), en *de, dem, deres* = þeir, þær, þau, þá þær, þau, þeim, þeirra.

2) Danir skipta ósamsettum orðum í atkvæði þannig, að hvert atkvæði hefst á samhljóðanda, t. a. m. *Da-ge*, dagar, *Hu-se*, hús. Þó er sú undantekning, að *x* heyrir undanfarandi atkvæði til, en eigi hinu eptirfarandi, t. a. m. *Ox-en*, uxinn, *Sax-en*, skærin, og eins *j*, ef það er haft á eptir hljóðstaf fyrir *i*, t. a. m. *Vej-en*, vegurinn, *Höj-en*, hæðin.

Nú standa tveir samhljóðendur saman í miðju orðs, og hljóðstafur bæði fyrir og eptir, þá skal láta sinn samhljóðann fylgja hvoru atkvæðinu, t. a. m. *tegne*, draga upp, *hærde*, herða, *ellers*, annars, nema því að eins, að

þessir samhljóðendur sjeu *sk*, *st*, *sp*, þá heyra báðir eptirfarandi samstöfu til t. a. m. *hu-ske*, muna, *ho-ste*, hósta, *ha-spe*, hespa.

Ef þrír samhljóðendur standa saman í miðju orðs, þá skal hinn fyrsti þeirra fylgja undanfarandi samstöfu, en hinir tveir hinni eptirfarandi, nema því að eins, að tveir hinir fyrstu sjeu *sk*, *st*, *sp*, þá fylgja allir þrír hinu eptirfarandi atkvæði; þannig t. a. m. *van-dre*, ganga, *el-ske*, elska; en *ve-stre*, vestari, *ö-stre*, eystari; enn fremur er rjettast, að *ng* og *nk* fylgi ávallt undanfarandi atkvæði, og einkum ef samhljóðandi fer á eptir, t. a. m. *Tank-er*, hugsanir, *Eng-le*, englar, *Ank-ler*, öklar.

Ef orð er samsett, þá skal skipta um samskeytin, þannig að hvorum hlutanum fylgi þeir stafir, er honum heyra, t. a. m. *for-ud-sige*, segja fyrir, *frem-sige*, mæla fram, o. s. frv.

Tveir hljóðstafir, er standa saman, heyra sinn hvoru atkvæðinu til, t. a. m. *fly-er*, flý. *Sne-en*, snjórinn, *ru-i-ne-re*, eyða, spilla.

Ef mörg orð eru sett saman, eða hið samskeytta orð verður mjög langt, þá er opt sett band á milli, t. a. m. *Kirkereparations- Bekostning*. þegar fleira en eitt orð er sett saman við hið þriðja, þá er vanalegast aðal orðið ritað áfast hinu síðasta, bandlaust, en band ritað á eptir hinum, t. a. m. *Raad- og Domhuset*, *Landsoverrets- samt Hof- og Stadsrets-Procurator*.

---

# ANNAÐ KAFLI.

## Beygingarfræði *(Flectio vocum; Böiningslære).*

### I. Um nafnorð *(Nomina substantiva; Navneord).*

### 7. gr. Um greininn *(Artiklen).*

Í dönsku eru öll orð annaðhvort sameiginlegs kyns *(commune genus; Fælleskjön)*, eða hvorugkyns *(g. neutrum; Intetkjön)*; hið sameiginlega kyn hefur þá í sjer fólgið bæði karlkyn og kvennkyn, sem greind eru í íslenzku, en þeirrar greiningar eru að eins fáar menjar í dönsku.

Tölurnar *(Numeri; Tal)* eru tvær, eintala *(N. singularis; Eental)* og fleirtala *(N. pluralis; Fleertal)*.

Greinirinn *(Articulus; Artikel, Kjendeord)* er tvenns konar, ótiltekinn og ákveðinn.

Hinn ótiltekni *(ubestemte)* greinir er *en* við þau orð, sem eru sameiginlegs kyns, og *et* við hvorugkyns-orð; hann er að öðru leyti óbeygjanlegur, eða eins í öllum föllum, og eigi til í fleirtölu; han stendur ávallt á undan því nafni, er hann á við, t. a. m.

Eint. *en Dal,* dalur; *et Barn,* barn;
Fleirt. *Dale,* dalir; *Börn,* börn.

Athugas. þessi ótiltekni greinir er að upphafi töluorðið *een, eet,* en er ávallt borinn fram áherzlulaus og þó með hinu myrka hljóði *e*'s (= *in*).

Hinn ákveðni greinir er aptur tvenns konar, greinir nafna og greinir einkunna.

Greinir nafna er í eint. *en*, við þau orð, sem sameinginlegs kyns eru, og *et* við hvorugkyns-orð, en í fleirt. *ene*, hvers kyns sem svo nafnið er. Honum er ávallt hnýtt aptan við nafnið, og endi nafnið sjálft á *e* í eint., þá er *e* sleppt framan af greininum, og verður hann þá

í eint. *n*, *t*, en í fleirt. verður hann að eins *ne*, svo framarlega sem nafnið hefur nokkra fleirtöluendingu. Standi nafnið í eig., er *s* bætt aptan við greininn, en eigi nafnið. þannig t. a. m.:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *Mand-en*, | maðurinn, | *Barn-et*, | barnið, |
| | Eig. | *Mand-ens*, | mannsinns, | *Barn-ets*, | barnsins. |
| Fleirt. | Gjör. | *Mænd-ene*, | mennirnir, | *Börn-ene*, | bornin, |
| | Eig. | *Mænd-enes*, | mannanna, | *Börn-enes*, | barnanna, |
| Eint. | Gjör. | *Hede-n*, | heiðin, | *Tilfælde-t*, | hendingin, |
| | Eig. | *Hede-ns*, | heiðarinnar, | *Tilfælde-ts*, | hendingarinnar, |
| Fleirt. | Gjör. | *Heder-ne*, | heiðarnar, | *Tilfælde-ne*, | hendingarnar, |
| | Eig. | *Heder-nes*, | heiðanna, | *Tilfælde-nes*, | hendinganna. |

Athugas. þessi greinir er upphaflega ábendingarfornafnið *hin*, *hint*, fleirt. *hine* (á ísl. hinn, hin, hitt), og hefur *e* ávallt hið opna hljóð (eins og e á íslenzku).

Hinn ákveðni greinir einkunna er í eint. *den* við þau orð, er sameiginlegs kyns eru, og *det* við hvorugkyns-orð; en *de* í fleirt., hvorskyns sem nafnið er. Hann er að öðru leyti með öllu óbreytilegur, og er ávallt settur á undan einkunninni; þannig t. a. m.:

| | | |
|---|---|---|
| Eint. | *den store Dal*, stóri dalurinn, | *det gode Barn*, góða barnið. |
| Fleirt. | *de store Dale*, stóru dalirnir, | *de gode Börn*, góðu börnin. |

Athugas. 1. Upphaflega er þetta ábendingarfornafnið *den*, *det*, *de*, en áherzlan verður eigi eins mikil, eins og á fornafninu.

Athugas. 2. Hinn ótiltekni greinir er þá hafður í dönsku, er Íslendingar hafa engan greini, en hinn ákveðni greinir, bæði nafna og einkunna, er Íslendingar hafa greininn, hinn, hin, hið, fyrir framan einkunnir, eða -inn, -in, -ið aptan við nöfn.

## 8. gr. Um kyn nafna (*Genus nominum; Navneordenes Kjön*).

Sameiginlegs kyns eru:

A, eptir merkingunni:

1. þau nöfn, sem tákna mann, hvort heldur er karlmaður eða kvennmaður, eða aðrar verur, sem skynsemi sjeu búnar, t. a. m. *en Mand*, maður, *en Fader*, faðir, *en Konge*, konungur, *en Smed*, smiður; *en Kvinde*, kona, *en Moder*, móðir, *en Dronning*, drottning, *en Sanger*, söngvari, *en Sangerske*, söngkona.
   1. Undantekning frá þessari reglu eru samskeytt orð, er síðari hluti þeirra er hvorugkyns-orð, t. a. m. *et Mandfolk*, karlmaður, *et Fruentimmer*, kvennmaður.
   2. Undantekning eru ýms þau orð, er eigi taka til, hvort heldur sje karlmaður eða kvennmaður, t. a. m. *et Menneske*, maður, *et Barn*, barn.
2. Nöfn þau, er tákna einhverja skepnu eða dýr, t. a. m. *en Hest*, hestur, *en Ko*, kýr, *en Fugl*, fugl, *en Fisk*, fiskur.

   Undantekin eru ýms þau orð, er eigi hafa í sjer fólgna greiningu hins náttúrlega kynsins, t. a. m. *et Dyr*, dýr, *et Kvæg*, skepna, *et Faar*, kind, *et Nöd*, naut, *et Øg*, eykur, *et Föl*, folald, *et Sviin*, svín, *et Egern*, íkorni, o. fl.
3. Nöfn á grösum og trjám, *en Rose*, rós, *en Bög*, beykitrje, *en Birk*, birkitrje.

   Undantekin eru þau nöfn, er tákna aðaltegundirnar, t. a m. *et Græs*, gras, *et Straa*, strá, *et Rör*, reyr, *et Træ*, trje.
4. Nöfn daga, mánaða og árstíma, t. a. m. *en Dag*, dagur, *Tirsdag*, þriðjudagur, *en Maaned*, mánuður.

*Februar*, febrúarmánuður. *December*, desembermánuður, *en Vinter*, vetur, *Sommer*. sumar. *en Vaar*, vor.

Undantekin eru *et Foraar*. vor. og *et Efteraar*, haust.

5. Nöfn átta og vinda, og allskonar veðurlags, t. a. m. *Syd*, suður. *Vest*. vestur. *Nord*, norður, *Øst*, austur; *en Vind*, vindur, *en Storm*, stormur, *en Regn*. regn, *en Snee*, snjór, o. s. frv.
6. Fljótanöfn öll, t. a. m. *Rhin*, Rín. *Elben*, Saxelfur, o. s. frv.
7. Nöfn á vísindagreinum, t. a. m. *Theologie, Physik*, eðlisfræði. *Logik*. hugsunarfræði.

B, Eptir afleiðsluendingunni eru sameiginlegs kyns:

1. þau nöfn. er tákna eiginlegleika og enda á *e, de, dom, hed, skab*, t. a. m. *en Varme*, hiti, *en Höide*, hæð, *en Trældom*, þrældómur. *en Dumhed*, heimska, *en Ondskab*, vonzka.
2. Nöfn þau, er tákna einhvern verknað, og enda á *en, ing, else, sel, st, t*, t. a. m. *en Löben*, hlaup, *en Læsning*. lestur, *en Styrelse*, stjórn. *en Udförsel*, útflutningur, *en Hugst*, skógarhögg, *en Væxt*. vöxtur. o. s. frv.
3. Útlend nöfn, er enda á *tör* (*teur*). *ist, an, on, isme, tet*, t. a. m. *en Redaktör*, (eða *Redakteur*). ritstjóri, *en Kalvinist*, sá sem er Kalvíns-trúar, *en Lutheran*, sá sem er Lúters-trúar, *en Revision*. yfirskoðun, *en Deisme*. það að trúa á einn guð; *en Prioritet*, veðmála aðgangur; þó er *Universitet*, háskóli, *Fakultet*, háskóladeild. og *Bibliothek*, bókasafn, hvorugkyns.

Nöfn þau, er endast á *i* (eða, eptir því sem sumir rita, *ie*), eru sum sameiginlegs kyns, þau sem tákna vísinda greinir, t. a. m. *en Geometri*, mælingafræði, *en Theologi*, *en Mineralogi*, steinafræði, o. s. frv. En mörg eru hvorugkyns-orð, einkum þau, er tákna einhverja stofnun eða eitthvert safn, t. a. m. *et Akademi*, eins konar háskóli, *et Monarki*, einveldi, *et Infanteri*, fótgönguliÐ, *et Despoti*, harðstjórn, *et Anarki*, stjórnleysi, o. s. frv.

Hvorugkyns nöfn eru:

A, eptir merkingu:

1. Nöfn landa, staða, málma og bókstafa, t. a. m. *det frugtbare Danmark*, hin frjóvsama Danmörk. *det folkerige Paris*, hin fjölmenna Parísborg, *det röde Guld*, hið rauða gull, *det tunge Bly*, hið þunga blý, *det store B*, stóra bjeið, o. s. frv.
2. Öll þau orð, sem eigi eru nöfn, en eru höfð sem nöfn í ræðunni, eða þegar talað er um eitthvert orð, enda þótt sameiginlegs kyns sje, út af fyrir sig, t. a. m.: *dette vel hörer ikke her til*, þetta vel á eigi hjer við, *dette smuk*, þetta orð, *smuk* (fagur): *dette Höide er overflödigt*, þetta orð, *Höide* (hæð), er óþarft, o. s. frv.

B. eptir endingunni eru hvorugkyns:

1. Öll þau nöfn, er endast á *eri*, er þau eru runnin eða leidd af dönskum orðum, og sömuleiðis þau, sem endast á *dömme*, t. a. m. *et Tyveri*, stuldur, *et Bryderi*, amstur. Um nöfn þau, er endast á *i*, og eru runnin af útlendri rót, sjá B 3 á undan.

Sömuleiðis eru nokkur nöfn, er endast á *skab*, *else*, eða *sel*, hvorugkyns, ef þau eigi tákna eiginlegleika eða verknað, t. a. m. *et Venskab*, vinátta, *et Broderskab*,

brœðralag, bróðerni; *et Adelskab*, herrastjett, *et Spögelse*, vofa, *et Værelse*, herbergi; *et Varsel*, viðvörun, fyrirburður; þó er *en Stavelse*, atkvæði, *en Randsel*, malur.

2. Þá eru hvorugkyns flest einsatkvæðisnöfn, sem leidd eru af sögnum, þannig að *e*, ending nafnháttarins. er horfin aptan af. eða með öðrum orðum, þegar megin hluti sagna verður að nafni, t. a. m. *et Kast*, kast, *et Skrig*, óp, *et Salg*, sala, *et Skud*, skot, *et Kjöb*, kaup (af *kaste, skrige, sælge, skyde, kjöbe*), o. s. frv.

Frá þessari reglu eru undanskilin nöfn þau, er enda á *ang* eða *gt*, því að þau eru sameiginlegs kyns, t. a. m. *en Sang*, söngur, *en Gang*, gangur. *en Agt*, gætur, *en Tugt*, agi, og fáein önnur, t. a. m. *en Strid*, þræta, *en Drik*, drykkur, *en Hjælp*, hjálp, o. s. frv.

Samskeytt orð eru sama kyns og síðari hluti samskeytingsins, sem orð sjer. hvers kyns sem svo fyrri hlutinn er, t. a. m. *et Birketræ*, birkitrje, *en Sölvtallerken*, silfurdiskur o. s. frv.

Undantekin eru öll samskeytt nöfn landa og staða, sem ávallt eru hvorugkyns, enda þótt síðari hluti samskeytingsins sje samkyns, t. a. m. *det frugtbare Danmark* (en *en Mark*), og orðið *Raad* í titlum, því þá er það samkyns, t. a. m. *en Konferentsraad*, (en *et Raad*, ráð), *en Justitsraad*, o. s. frv. og enn fremur. *et Bogstav*[1], bókstafur, *et Maaltid*, málsverður, *et Vidnesbyrd*, vitnisburður, *et Gjenfærd*, apturganga, af *en Stav*. *en Tid*, *en Byrd*, *en Færd*.

---

[1]) Í gamalli dönsku er þó *Bogstav* samkyns, og það kyn helzt á því enn í biflíustýl og ýmsum orðtækjum, t. a. m. *Bogstaven ihjelslaaer; at tage efter Bogstaven*, eptir orðunum.

Ýms eru þau orð, er ýmist eru samkyns eða hvorugkyns, t. a. m. *en Telt,* og *et Telt,* tjald, *en Fabrik* og *et Fabrik,* verkstaður, *en Trold* og *et Trold,* töfra maður, *en* og *et Punkt,* atriði. Nú er ávallt sagt *en Taage,* þoka, en þó í talshættinum, *at gaae i Taaget,* að ganga í blindni, vaða í villu og svíma. Nú er og sagt *et Sted,* en þó opt *nogensteds,* nokkurstaðar, *ingensteds,* hvergi, *istedenfor,* í stað, o. s. frv. (fyrir *nogetsteds, intetsteds, istedetfor*), af því áður fyrrum var það samkyns, *en Sted* (sb. í íslenzku: staðurinn). *et Bogstav,* og þó *efter Bogstaven.*

Allmörg, nöfn eru ýmist samkyns eða hvorugkyns, eptir því hver merking þeirra er; þessi eru hin helztu:

| Samkyns: | Hvorugkyns: |
|---|---|
| *en Ark,* örk(in hans Nóa), | *et Ark,* pappírsörk: |
| *en Bid,* biti, | *et Bid,* bit; |
| *en Birk,* björk. | *et Birk,* landshluti; |
| *en Bo,* bústaður, | *et Bo,* bú, búshlutir: |
| *en Bord,* borði, brydddíng, | *et Bord,* borð; |
| *en Borg,* kastali, höll, | *et Borg,* lán; |
| *en Brud,* brúður, | *et Brud,* brot, rof; |
| *en Buk,* bukkur, hafur. | *et Buk,* hneiging; |
| *en Digt,* skreytni, | *et Digt,* kvæði; |
| *en Flor,* blómi, | *et Flor,* silkislæða: |
| *en Frö,* froskur, | *et Frö,* frækorn; |
| *en Fyr,* (langt atkvæði), ungur maður, | *et Fyr,* viti; |
| *en Fyr,* (stutt atkvæði), fura, | |
| *en Fölge,* afleiðing. | *et Fölge,* fylgd, fylgdarmenn: |
| *en Gran,* grenitrje, | *et Gran,* ögn; |
| *en Hagel,* hagl, jel, | *et Hagel,* haglkorn; |
| *en Iver,* ákafi, | *et Iver* (fyrir *Yver*), júgur; |

| Samkyns. | Hvorugkyns. |
|---|---|
| *en Klap,* speldi, lok, | *et Klap,* klapp; |
| *en Kuld* (s. s. *Kulde*), kuldi, | *et Kuld,* afkvæmi í sama hjónabandi; |
| *en Led* (leið), hlið, vegur, | *et Led,* hlið á garði; liður, limur; |
| *en Leie,* leiga, | *et Leie,* rúm, bœli; |
| *en Lem,* blemmur, | *et Lem,* liður; |
| *en Lod,* forlög, hluti, | *et Lod,* lóð (1/32 úr pundi); |
| *en Læg,* kálfi, | *et Læg,* felling; |
| *en Mode,* siður, | *et Mode,* samkoma (t. a. m. í *Landemode*); |
| *en Mor,* blámaður, líka mýri, | *et Mor,* eins konar silki; |
| *en Muk,* samdráttur í hestfœti, | *et Muk,* mögl; |
| *en Söm,* saumur á fati, | *et Söm,* nagli; |
| *en Tryk,* prentun, | *et Tryk,* þrýsting; |
| *en Træk,* gustur, | *et Træk,* dráttur; |
| *en Vaar,* vor, | *et Vaar,* ver (koddaver, sængurver); |
| *en Værge,* fjárhaldsmaður, | *et Værge,* verja, vopn; |
| *en Væv,* vefstóll, | *et Væv,* þvaður; |
| *en Æsel,* heimskingi, | *et Æsel,* asni (dýr). |

Athugas. Mörg orð mætti og telja, er eins eða líkt eru rituð, en ólíkt framborin, og ýms, sem eins eða líkt eru framborin, en eigi eins rituð.

## 9. gr. Um beygingu nafna *(Flectio nominum; Navneordenes Böining).*

Nöfn í dönsku hafa að eins tvær myndir í hvorri tölu fyrir sig, aðra myndina fyrir gjöranda (*Nominativus; Nævneform*), þolanda og þiggjanda (*Accusativus; Gjen-*

*standsform)*, (*Dativus*; *Hensynsform*)[1]); en hina fyrir eiganda.

Öllum nöfnum í dönsku má skipta í tvo flokka eða aðalbeygingar, eptir því hver fleirtöluendingin er, eða hverja endingu þau fá í gjör. fleirt. Til fyrri beygingarinnar teljast öll þau nöfn, er enda á stuttu *e*, en til annarar beygingarinnar öll önnur nöfn, hvernig sem þau enda. Í fyrri beygingunni myndast fleirtalan þannig, að *r* er bætt við, en í annari beygingunni myndast gjörandi fleirt. í sumum orðum, með því að bæta *e* við mynd gjör. eint., í sumum með því að bæta við *er* og í sumum er gjör. fleirt. eins og gjör. eint., eða með öðrum orðum, að þau hafa enga fleirtölu-endingu. Eigandinn í báðum beygingunum, bæði í eintölu og fleirtölu, myndast með því mótinu, að *s* er bætt við gjör. hverrar tölu fyrir sig, eða *es*, ef gjör. endar á *s* eða *x*, og stundum í orðum, er enda á *sk, st,* eða *sp.*

Athugas. Sumir bæta *es* við í eiganda eint. allra þeirra orða. er í gjör. enda á hljóðstaf, hvern helzt sem er, nema *e*. t. a. m. *By*, eig. *Byes*, *Træ*, eig. *Træes*, en Rask heitinn vildi að eins bæta við *s*, með því þetta *e* eigi heyrist í framburði, enda virðist eigi eiga heima í dönsku, þegar þess konar orð eru borin saman við íslenzkuna.

Samkvæmt því, sem nú er greint, verða fallendingarnar í báðum beygingunum þessar:

| | | 1. beyg.: | 2. beyg.: 1. flokk. | 2. flokk. | 3. flokk. |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *e*; | - — „ | - — „ | - — „; |
| | Eig. | *es*; | - — *s* | - — *s* | - — *s*; |
| Fleirt. | Gjör. | *er*; | - — „ | - — *e* | - — *er*; |
| | Eig. | *ers*; | - — *s* | - — *es* | - — *ers*. |

---

[1]) Fyrir stuttleika sakir er í þessari bók að eins sett Gjör. við dæmin, í staðinn fyrir Gjör., þol., þiggj.

En sje ákveðna greininum hnýtt aptan við nafnið, fellur eiganda-endingin burtu, og er sett aptan við greininn, t. a. m. *Konge*, eig. *Konges-Kongens;* sb. 7. gr. hjer á undan. Þó finnast þess einstök dœmi, að *s* helzt á upphaflegum stað, og öðru er þó bœtt aptan við greininn, t. a. m. *Dödsens;* eru það leifar norrœnunnar, og á sjer að eins stað í gömlum orðtækjum og einkennilegu sambandi, t. a. m. *at være Dödsens*, að vera dauðans matur; *al Verdsens Skam*, mesta háðung.

## 10. gr. Fyrri beygingin.

Eptir þeirri beygingu ganga öll nafnorð, sem í gjör. eint. enda á hljóðlaust *e*, hvort heldur eru sameiginlegs kyns eða hvorugkyns t. a. m.:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *en Konge*, konungur, | *en Kone*, kona, | *et Nyre*, nýra, |
| | Eig. | *en Konges*, | *en Kones*, | *et Nyres*, |
| Fleirt. | Gjör. | *Konger*, | *Koner*, | *Nyrer*, |
| | Eig. | *Kongers;* | *Koners;* | *Nyrers.* |

Þannig beygjast t. a. m.:

*en Löve*, ljón;
*en Abe*, api;
*en Hane*, hani;
*en Höne*, hœna;
*en Fjende*, óvinur;
*en Herre*, herra;
*en Have*, garður;
*en Krone*, kóróna;
*en Gave*, gjöf;
*en Lövinde*, kvennljón;
*en Vane*, vani;
*en Stavelse*, atkvæði;
*et Rige*, ríki;
*et Æble*, epli;
*et Stykke*, stykki;
*et Minde*, minnismerki;
*et Gjerde*, garður, girðing;
*et Löfte*, loforð;
*et Mærke*, merki.

Fleirt. af orðinu *Bonde*, bóndi, er *Bönder*.

Tvö hvorugkyns nöfn, er heyra þessari beygingu til, *Tilfælde*, atvik, hending, og *Södskende*, systkini, eru eins í fleirt. og eint., og sömuleiðis tvö nöfn sameiginlegs kyns, *Penge*, peningur, og *Lige*, líki, jafningi, t. a. m. *disse Tilfælde, to Södskende, mange Sölvpenge, mine Lige*. Ákveðna greininum verður aldrei hnýtt aptan við *Lige*.

Fleirtölu-myndin af *et Öie* er *Öine*, en áður var það *Öien*, og er sú mynd enn höfð í samskeytingum, t. a. m. *Öienbryn*, augabrún, *Öienlaag*, augnalok.

*Öre* er í fleirt. *Ören*, og líka *Örer*, þó sú myndin sje nú orðin mjög sjaldhöfð.

*En Oxe* hefur í fleirt. *Oxer*, og líka *Öxen* og *Öxne*. Fleirtala af *Menneske* (maður) er *Mennesker*, en sje greinirinn skeyttur við, fellur endingar-errið optast burtu, svo að það verður *Menneskene*.

Þau orð, er tákna einhverja tign eða nafnbót, og enda á *e*, fella í burtu *e*, er þau eru sett framan við eignarnöfn, t. a. m. *Kong Frederik den syvende, Fyrst Edvard, Grev Holten, Herr Adam, Fru Nielsen*. Þó eru það eigi öll nöfn, er enda á *e*, að fylgi þessari reglunni, t. a. m. *Pave* (páfi) *Gregorius*, en aldrei *Pav Gregorius*; sömuleiðis eru öll nöfn, er enda á *inde*, undanskilin, t. a. m. *Grevinde, Fyrstinde*, o. s. frv.

Hvernig ákveðni greinirinn sje skeyttur við, hefur áður verið talað um, sjá 7. gr., og eigi þörf að skýra nákvæmar frá því, nema að *e* í endingu nafnsins fær opið hljóð, er greininum er bætt við, er það áður hafði lokað hljóð, t. a. m. *Konge, Kongen*.

## 11. gr. Önnur beyging.

Nöfnum þeim, er hneigjast eptir þessari beygingunni, verður að skipta í þrjá flokka, en þó eigi öllum eptir kynjum.

Dœmi upp á þessa þrjá flokka eru *en Dag*, dagur, *en Sag*, sök, málefni, *et Dyr*, dýr.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *en Dag*, | *en Sag*, | *et Dyr*, |
| | Eig. | *en Dags*, | *en Sags*, | *et Dyrs*, |
| Fleirt. | Gjör. | *Dage*, | *Sager*, | *Dyr*, |
| | Eig. | *Dages*, | *Sagers*, | *Dyrs*. |

Athugasemd. Í mörgum þeim orðum, er hafa stuttan hljóðstaf í meginhlutanum, og einfaldur samhljóðandi fer á eptir í endanum, tvöfaldast þessi samhljóðandi, þegar einhver sú ending bætist við, er hefst á hljóðstaf, hvort heldur er greinirinn eða fleirtölu endingin, t. a. m. *en Bæk*, lækur, *en Blok*, hellusteinn, trjedrumbur, *en Hat*, hattur, *en Top*, toppur, *en Straf*, hegning, *en Rigdom*, auður, *en Træl*, þræll, *en Væg*, veggur; fleirt. *Bække*, *Blokke*, *Hatte*, *Toppe*, *Straffe*, *Rigdomme*, *Trælle*, *Vægge*; með ákveðna greininum: *Bækken*, *Blokken*, *Hatten*, *Toppen*, *Straffen*, *Rigdommen*, *Trællen*, *Væggen*. *En Nöd*, hnot, *en Almanak*, *en Fabrik*, *en Ven*, vinur; fleirt. *Nödder*, *Almanakker*, *Fabrikker*, *Venner*; með greininum: *Nödden*, *Almanakken*, *Fabrikken*, *Vennen*. *Et Kar*, ker, *et Lam*, lamb, *et Söm*, nagli, *et Led*, liður, *et Lod*, lóð, *et Æg*, egg; með greininum: *Karret*, *Lammet*, *Sömmet*, *Leddet*, *Loddet*, *Ægget*, o. s. frv.

## 12. gr. Um 1. flokk annarar beygingarinnar.

Þau nöfn, er hneigjast eins og *Dag*, eru flest karlkyns í íslenzku, t. a. m.:

*en Baad*, bátur;
*en Björn*, björn;
*en Brönd*, brunnur;
*en Dreng*, drengur;
*en Dal*, dalur;
*en Fisk*, fiskur;
*en Fugl*, fugl;
*en Gaard*, garður;
*en Hest*, hestur;
*en Himmel*, himinn;
*en Hund*, hundur;
*en Ild*, eldur;
*en Kat*, köttur;
*en Kniv*, knífur;
*en Leg*, leikur;
*en Orm*, ormur;
*en Steen*, steinn, o. s. frv.,

og að auki ýms önnur nöfn sameiginlegs kyns í dönskunni, en annaðhvort kvennkyns eða karlkyns í íslenzkunni, og svo ýms, er ekki eiga heima í íslenzku, t. a. m. *en Borg*, *en Eg*, eik, *en Naal*, nál, *en Sol*, sól, *en Eng*, engi, *en Lov*, lög, *en Skik*, siður, o. s. frv. Enn fremur heyra til þessa flokksins öll þau nöfn, er endast á *-er*, eða *-dom*, t. a. m. *en Græker*, Grikki, *en Væver*, vefari, *Helligdom*, helgur dómur, helgistaður.

Ýms hvorugkyns-nöfn teljast og með þessum flokknum, t. a. m.:

*et Bad*, bað;
*et Bjerg*, fjall;
*et Blad*, blað;
*et Brev*, brjef;
*et Hav*, haf;
*et Huus*, hús;
*et Land*, land;
*et Navn*, nafn;
*et Skab*, skápur;
*et Skib*, skip;
*et Skjold*, skjöldur;
*et Slot*, höll;
*et Speil*, speigill;
*et Tag*, þak;
*et Telt*, tjald;
*et Torv*, torg;
*et Taarn*, turn;
*et Uhr*, sigurverk;
*et Vand*, vatn, o. s. frv.

Tveggja atkvæða orð, er enda á *el*, eða *er*, fella úr þetta *e* í fleirt., og fari tvöfaldur samhljóðandi á undan því, verður hann einfaldur, t. a. m. *en Himmel*, fleirt. *Himle; Hammer*, hamar, fleirt. *Hamre; et Kammer*, herbergi, fleirt. *Kamre; et Offer*, fórn, fleirt. *Ofre; en Finger*, fingur, fleirt. *Fingre; en Engel*, engill, fleirt. *Engle; en Ager*, akur, fleirt. *Agre*, o. s. frv. Stundum er það og, að *e* er úr fellt í síðara atkvæðinu, ef greinirinn er skeyttur við nafnið, og þó er það sjaldnar, t. a. m. *Himlen*. Þau nöfn, er endast á *er*, og tákna karlmenn, eru aldrei dregin saman, t. a. m. *en Væver*, fleirt. *Vævere; en Læser*, lesandi, fleirt. *Læsere; en Lærer*, kennari,

fleirt. *Lærere; en Tydsker*, þjóðverji, fleirt. *Tydskere*, o. s. frv.

Í þeim orðum, sem nú skulu greind, breytist hljóðstafur fyrra atkvæðisins í fleirtölunni:

*Fader*, fleirt. *Fædre; Broder*, fleirt. *Brödre:*
*Moder*, — *Mödre; Datter*, — *Dötre.*

## 13. gr. Um 2. flokkinn.

Eins og *Sag* beygjast öll orð, er endast á hljóðstaf, hver helzt sem er, nema tveggja atkvæða orð, er enda á *e*, og því ganga eptir fyrri beygingunni, og svo orðið *et Frö*, frækorn, t. a. m. *en Bro*, brú, *en By*, bær, staður, *en Frö*. froskur, *en Sky*, ský, *en Sti*, stigur, *et Træ*, *et Töi*, dúkur, *en Ö*, ey; fleirt. *Broer*, *Byer*, *Fröer*, *Skyer*, *Stier*, *Træer*. *Töier*. *Öer*. Sömu reglu fylgja og öll orð, er endast á *i* eða *eri*, t. a. m. *Parti*. flokkur, *Bogtrykkeri*, prentsmiðja. o. s. frv.; en ef þeirri reglu er fylgt, að rita *e* á eptir *i*, eins og sumir gjöra, enda þótt það *e* sje óheyrilegt, verður að telja þau til fyrri beygingarinnar.

Þá beygjast enn eins og *Sag* öll afleidd orð upp á *-hed*, *-ing*, *-skab* og *en*, og ýms á *el*, t. a. m. *en Dumhed*, heimska, *Skabning*. skepna, *en Aften*, kveld, *en Regel*, regla; fleirt. *Dumheder*. *Skabninger*, *Aftener*. *Regler*, o. s. frv.

Enn fremur mörg þau orð, sem eru kvennkyns í íslenzku, og þó ýms önnur, t. a. m. *en Bön*, bæn, *en Ged*, geit, *en Ært*, erta, *en Natur*, náttúra, *en Art*, tegund, *en Gud*, guð, *en Præst*. prestur, *et Hul*, hola, gat, *et Beviis*, sönnun, o. s. frv.; fleirt. *Bönner*, *Geder*, *Ærter*, *Naturer*. *Arter*. *Guder*. *Præster*, *Huller*, *Beviser*,

þá beygjast og eins og *Sag* öll útlend orð. tveggja atkvæða eða fleiri, er endast á samhljóðanda, og áherzlan liggur annaðhvort á síðasta atkvæðinu, eða því, sem þar fer næst á undan, t. a. m. þau sem enda á:

*al, el, ol,* t. a. m. *General,* hershöfðingi, *Kamel,* úlfaldi, *Viol,* fjóla, o. s. frv., fleirt. *Generaler, Kameler, Violer.*

*an, en, in, on, un,* t. a. m. *Altan,* veggsvalir, *Gardin,* gluggatjald, *Patron,* forstjórnarmaður, *Basun,* lúður, o. s. frv.; fleirt. *Altaner, Gardiner, Patroner, Basuner.*

*ar, er, or, ur, ær,* eða *air, ör* eða *eur,* t. a. m. *Husar,* eins konar riddari, *Karakter,* skaplyndi, *Professor,* háskólakennari, *Figur,* mynd, *Sekretær* eða *Sekretair,* skrifari, *Guvernör* eða *Gouverneur,* fylkisstjóri; fleirt. *Husarer, Karakterer, Professorer, Figurer, Sekretærer, Guvernörer.*

*at, et, ot, ut,* t. a. m. *Plakat,* auglýsingar-skjal, *Planet,* reikistjarna, *Patriot,* þjóðrækinn maður, *Rekrut,* nýr liðsmaður; fleirt. *Plakater, Planeter, Patrioter, Rekrutter.*

*ant, ent,* t. a. m. *Pedant,* smámunasamur maður, *Student,* stúdent; fleirt. *Pedanter, Studenter,* o. s. frv.

Sum eru þau útlend orð, er í gjöranda eint. enda á *um,* og breytist sú ending í *er* í fleirt., t. a. m. *Museum,* gripahús; fleirt. *Museer.*

Tveggja-atkvæða-orð, er endast á *el,* dragast saman í fleirt., og eins ef greininum er hnýtt aptan við þau, t. a. m. *Kjedel,* ketill, fleirt. *Kjedler,* með greininum *Kjedlen.* Sömu reglu fylgja og stundum tveggja-atkvæðaorð á *en,* en þó er það sjaldnar, að þau dragist saman, t. a. m. *Væsen,* vera, fleirt. *Væsner* (f. *Væsener*), *Aften,* fleirt. *Aftner* (f. *Aftener*).

Ýms nöfn þessa flokks breyta hljóðstaf meginhlutans í fleirt., og eru hin helztu þau, er nú skal greina:

| | | |
|---|---|---|
| *en And*, önd, | fleirt.: | *Ænder;* |
| *en Kraft, kraptur*, | — | *Kræfter;* |
| *en Nat*, nótt, | — | *Nætter;* |
| *en Stad*, staður, | — | *Stæder;* |
| *en Stand*, stjett, | — | *Stænder;* |
| *en Stang*, stöng, | — | *Stænger;* |
| *en Tand*, tönn, | — | *Tænder;* |
| *en Tang*, töng, | — | *Tænger;* |
| *en Haand*, hönd, | — | *Hænder;* |
| *en Raa*, rá, | — | *Ræer;* |
| *en Taa*, tá, | — | *Tæer;* |
| *en Vaand*, tág, | — | *Vænder;* |
| *en Bod*, bót, bætur, | — | *Böder;* |
| *en Bog*, bók, | — | *Böger;* |
| *en Fod*, fótur, | — | *Födder;* |
| *en Klo*, kló, | — | *Klöer;* |
| *en Ko*, kýr, | — | *Köer;* |
| *en Rod*, rót, | — | *Rödder;* |
| *en So*, sýr (= svín), | — | *Söer.* |

## 14. gr. Um 3. flokkinn.

Eins og *et Dyr* beygjast fjöldamörg frumnöfn (*primitiva*) hvorugkyns, t. a. m.:

*et Ar*, ör (-ið);
*et Aar*, ár;
*et Been*, bein;
*et Bind*, band;
*et Baand*, band;
*et Bröd*, brauð;
*et Faar*, sauður;
*et Aag*, ok;
*et Laag*, lok;
*et Löv*, lauf;
*et Ord*, orð;
*et Pund*, pund;
*et Ror*, stýri;
*et Seil*, segl;

*et Folk*, þjóð; *et Frö*, frækorn; *et Hjul*, hjól; *et Horn*, horn; *et Jern*, járn; *et Lys*, ljós; *et Sprog*, tunga; *et Straa*, strá; *et Sværd*, sverð; *et Saar*, sár; *et Æg*, egg, o. s. frv.

Eins og *et Dyr* beygjast eins-atkvæðis hvorugkyns nöfn, sem leidd eru af nafnhætti sagna, t. a. m. *et Kys*, koss, *et Trin*, stig, *et Tag*, tak, o. s. frv., og að auki nokkur nöfn sameiginlegs kyns, t. a. m. *en Feil*, galli, yfirsjón; *en Sko*, skór; *en Aal*, áll; *en Muus*, o. s. frv.

Í *en Gaas*, gás, *en Mand*, maður, og *et Barn*, barn, breytist hljóðstafurinn í fleirt., svo að fleirt. verður *Gæs*, *Mænd*, *Börn*.

## 15. gr. Athugasemdir við beygingu nafnanna.

Ýms eru þau nöfn, er eigi verða höfð í fleirt. sökum merkingar þeirra; þess konar nöfn eru öll eiginleg nöfn, t. a. m. *Hans*, *Frederik*, *Dannmark*, *Slesvig*, o. s. frv., og svo þau er tákna málma, jarðtegundir, korntegundir, eiginlegleika, hátíðir, og enn ýms önnur, t. a. m.:

*Bly*, blý; *Kobber*, kopar; *Tin*, tin; *Leer*, leir; *Byg*, bygg; *Havre*, hafur; *Honning*, hunang; *Hvede*, hveiti; *Hö*, hey; *Meel*, mjel; *Vox*, vax; *Sand*, sandur; *Stöv*, dust; *Klogskab*, hyggni; *List*, kænska; *Ære*, heiður; *Skam*, skömm; *Juul*, jól; *Paaske*, páskar; *Pintse*, hvítasunna, o. s. frv.

Þó verða sum af þessum nöfnum höfð í fleirt., en þá er merking þeirra öll önnur, t. a. m. *et Kobber*,

fleirt. *Kobbere* er = *Kobberstik* (prentuð eirskript), eins og líka sum orð hafa tvær merkingar í fleirt., þótt eigi nema eina í eint., t. a. m. *et Klæde*, dúkur, en *Klæder*, dúka tegundir, og líka = *föt*. *en Stund*, stund, *Stunder*, stundir, og líka tómstundir, o. s. frv.

Á hinn bóginn eru það ýms orð, er eigi verða höfð í eintölunni t. a. m.:

*Briller*, gleraugu;
*Buxer*, brækur;
*Emmer*, eimirja;
*Forældre*, foreldrar;
*Indvolde*, innýfli;
*Kaar*, kjör;
*Löier*, gaman;
*Sæder*, siðir, í eint. úrelt, o. s. frv.

Sum orð eru þau, er hafa tvær fleirtölumyndir, eptir því hver merking þeirra er. t. a. m. *et Lod*, lóð (1/16 úr mörk), fleirt. *Lod*, en *Lod*, sakka, eða lóð á reizlu, fleirt. *Lodder*; *en Skat*, fjársjóður, fleirt. *Skatte*, *en Skat*, skattur, fleirt. *Skatter*: *et Vaaben*, vopn, fleirt. eins, en *Vaaben*, merkiskjöldur, fleirtala *Vaabener*: en auk þess eru mörg tvö og tvö orð eins í eintölu, en ólík í fleirtölu, enda sitt hvors kyns, eða sitt af hvorum stofni, t. a. m. *en Söm*, saumur á fati, fleirt. *Sömme*, en *et Söm*, nagli, fleirt. *Söm*; *en Bod*, búð, fleirt. *Boder*, en *en Bod*, bót, bætur, fleirt. *Böder*; sb. 8. gr.

Athugasemd. Auk þeirra mynda, er nú þegar eru greindar, finnast og ýmsar leifar norrænunnar; sumar eru reyndar úreltar, eða eru að eins hafðar í orðtækjum og málsháttum, en sumar eru og hafðar í hversdagslegu tali, en þó í einkennilegu sambandi. Þannig t. a. m., er hvorugkyns-nöfn, ef greininum er hnýtt aptan við, endast í eiganda á *-ens* (í stað *-ets*) eða jafnvel *-sens*, t. a. m. *Hjertens (min Hjertens Ven)*, *Landsens (al Landsens Ulykke)*, *Livsens (af alle Livsens Kræfter)*, *Menneskens Sön*, í staðinn fyrir: *Hjertets*, *Landets*, *Livets*, *Menneskets*, sbr. 9. gr. Einnig finnast leifar þiggjandaendingarinnar í norrænunni, er hann í dönsku endast á *e*, t. a. m. *i Tide* (í tækan tíma), *at have i Hænde* (= hendi, hafa í höndum), o. s. frv.

## II. Einkunnir *(Nomina adjectiva; Tillægsord).*

### 16. gr. Beyging einkunna *(Flectio n. adjectivorum; Tillægsordenes Böining).*

Beyging einkunna í dönsku er á tvennan hátt, eptir því hvort ákveðni greinirinn er með, eða eigi. Sje ákveðni greinirinn eigi með, er einkunnin endingarlaus í hinu sameiginlega kyni í eint., en í hvorugkyninu er bætt við *t*, og í fleirtölu er í báðum kynjum og öllum föllum bætt *e* við mynd eintölunnar í sameiginlega kyninu, og sömu myndir hafa einkunnirnar, þótt óákveðni greinirinn sje með. En standi ákveðni greinirinn fyrir framan, þá endast einkunnirnar í báðum kynjum og tölum á *e*: og skal nú sýna dæmi beygingarinnar:

1. Án greinis:

| | | samk. | hvorugk. |
|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *stor Mand*, mikill maður; | *stort Skib*, stórt skip; |
| | Eig. | *stor Mands*, | *stort Skibs*, |
| Fleirt. | Gjör. | *store Mænd*, | *store Skibe*, |
| | Eig. | *store Mænds*, | *store Skibes.* |

2. Með óákveðna greininum:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *en stor Mand*, | *et stort Skib*, |
| | Eig. | *en stor Mands*, | *et stort Skibs.* |

3. Með ákveðna greininum:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *den store Mand*, | *det store Skib;* |
| | Eig. | *den store Mands*, | *det store Skibs:* |
| Fleirt. | Gjör. | *de store Mænd*, | *de store Skibe;* |
| | Eig. | *de store Mænds*, | *de store Skibes:* |

þannig beygjast t. a. m.:

*grön, grönt, grönne*, grænn; *höi, höit, höie*, hár; *sand, sandt, sande*, sannur; *syg, sygt, syge*, sjúkur; *tryg, trygt, trygge*, óhultur; *ung, ungt, unge*, ungur.

Einkunnir þær, sem hafa afleiðsluendinguna *el*, *en* eða *er*, og sömuleiðis öll hluttekningarorð, er enda á *en*, dragast saman í fleirt., og þegar ákveðni greinirinn er með, þannig að *e* á undan *l*. *n* og *r* fellur í burtu, t. a. m. *ædel*, veglyndur, *ædle*, *den ædle*; *nögen*, nakinn, *nögne*, *den nögne*; *tapper*, hraustur, *tappre*, *den tappre*; *reven*, rifinn, *revne*, *den revne*, o. s. frv.

Í einkunnum þeim, sem að eins eru eitt atkvæði, og hljóðstafurinn er stuttur í, en einfaldur samhljóðandi fer á eptir, tvöfaldast þessi samhljóðandi, þegar hljóðstafsendingu er bætt við, hvort heldur er fleirtöluendingin, eða hinn ákveðni greinir er með, t. a. m. *slem*, illur, *slemme*, *den slemme*; *let*, ljettur, *lette*, *den lette*, o. s. frv.

Í hluttekningarorðum (*participia*) þeim, sem eru tvö atkvæði, og enda á *et*, breytist þetta *et* í *ede* í fleirt., og eins ef ákveðni greinirinn er með, t. a. m. *elsket*, elskaður, *elskede*, *den elskede*. Eins breytast og einkunnir þær, er endast á *et*, sje þetta *et* áherzlulaust, t. a. m. *broget*, marglitur, *brogede*, *den brogede*; *enöiet*, eineygður, *enöiede*, *den enöiede*, o. s. frv. En sje áherzla á *et*, breytist það ekki, t. a. m. *ret*, rjettur, *rette*, *den rette*; *net*, þokkalegur, *nette*, *den nette*, o. s. frv.

Einkunnir þær, er endast á *e*, áherzlulaust *es*, eða *s*, ef samhljóðandi fer á undan, eru óbeygjanlegar, og fá því enga fleirtölu-endingu, t. a. m. *stille*, hægur, *bange*, hræddur, *udvortes*, ytri, *indvortes*, innri, *fælles* eða *fælleds*, sameiginlegur, *stakkels*, vesall. Sömuleiðis eru einkunnirnar *lutter* og *idel*, eintómur, að öllu leyti óbreytilegar. Enn fremur vill Rask, að *blaa*, blár, *graa*, grár, *smaa*, lítill, *faa*, fáir, *tro*, trúr, *ædru*, ódrukkinn, og *bly*, einurðarlítill, fari eptir sömu reglu, þeirri að *e* eigi sje bætt við, hvorki í fleirt., nje þótt greinirinn sje með, og að minnsta kosti heyrist aldrei *e* í tali aptan við *blaa*, *graa*,

*smaa* og *faa*, og sjaldan við hin orðin, þótt í fleirtölu sje, eða greinirinn sje með.

*Liden*, lítill, og *megen*, mikill, hafa enga fleirt., en sem fleirt. eru höfð *smaa* og *mange*. *Faa* hefur enga eintölu.

Í hvorugkyninu er engu *t* bætt við, eða hvorugkynið verður eins og samkynið í þeim einkunnum, sem endast á:

1. *e*, *o*, *u* eða *y*, t. a. m. *ringe*, lítilfjörlegur, *tro*, *ædru*, *snu*, slægur, *bly*. Undanskilið er *ny*, *nyt*, nýr.
2. *t*, t. a. m. *let*, *tæt*, þjettur, *kort*, stuttur, *dobbelt*, tvöfaldur, *bekjendt*, kunnugur.
3. Áherzlulaust *-es*, eða *s*, ef samhljóðandi fer á undan, t. a. m. *udvortes*, *indvortes*, *fælles* eða *fælleds*, *stakkels*; sömuleiðis *lutter* og *idel*.
4. *sk*, t. a. m. *dorsk*, latur; *dansk*, *frisk*, heilbrigður, o. s. frv.
5. Ýms orð, er endast á *d*, t. a. m. *glad*, glaður.

Í hluttekningarorðum þeim, er endast á *en*, er *n* í þessari endingu fellt úr á undan hvorugkyns-endingunni *t*, t. a. m. *funden*, fundinn, *fundet*; *reven*, *revet*; o. s. frv. Sömu reglu fylgja og einkunnirnar *megen*, *liden* og *egen*, eiginn, hvorugkynið *meget*, *lidet* og *eget*; en þó *egent* að minnsta kosti hjá sumum, er það er í sömu merkingu og *særegent*, einkennilegt. Fyrir *liden*, *lidet*, er nú orðið tíðhafðara *lille* í báðum kynjum.

Þegar einkunnir eru hafðar í stað nafna, eða nafnið er komið á undan, en sleppt síðar fyrir aptan einkunn, til að forðast óþarfa upptekningu sama orðs, þá er bætt við *s* í eig., en að öðru leyti er breyting þeirra hin sama, og þá er nafn fer á eptir t. a. m.:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *en Hvid*; | *den Gode*; |
| | Eig. | *en Hvids*; | *den Godes*; |
| Fleirt. | Gjör. | | *de Gode*; |
| | Eig. | | *de Godes*; |

*en röd Klædnings Farve er ikke saa varig som en hvids; et rödt Törklædes som et hvidts, de rödes som de hvides,* o. s. frv.

Athugas. *Megen, egen, lutter* og *idel* verða aldrei höfð með ákveðna greininum, og taka því engum breytingum sökum hans.

## 17. gr. Stigbreyting einkunna *(Comparatio; Gradböining).*

Af hinu óbreytta, eða endingarlausa frumstigi (*gradus positivus; förste Grad*) myndast miðstig (*gr. comparativus; höiere Grad*) með því mótinu, að endingunni *ere* er bætt við frumstigið, og efsta stigið (*gr. superlativus; höieste Grad*) með því, að við frumstigið er bætt *est.* t. a. m. *hvid, hvidere, hvidest, kort, kortere, kortest.*

Endist frumstigið á *e*, er í miðstiginu að eins bætt við *re*, og í efsta stiginu *st*, t. a. m. *ringe ringe-re, ringe-st.* Þær einkunnir, er hafa afleiðsluendinguna *ig, lig* eða *som,* bæta við í miðstiginu *ere,* en í efsta stiginu að eins *st,* t. a. m. *værdig, værdigere, værdigst,* verður; *ærlig, ærligere, ærligst,* vandaður; *virksom, virksommere, virksomst,* starfsamur.

Í sumum einkunnum breytist hljóðstafur meginhlutans í miðstigi og efsta stigi, enda bæta þær flestar við að eins *re* í miðstigi, og *st* í efsta stigi; þær einkunnir eru:

| | | |
|---|---|---|
| *faa,* | *færre,* | *færrest;* |
| *lang,* langur, | *længere,* | *længst;* |
| *smaa,* | *smærre,* | *smærrest* (miðstig og efsta stig sjaldhöfð) |
| *stor,* | *större,* | *störst;* |
| *ung,* | *yngre,* | *yngst.* |

Með öllu óregluleg er stigbreytingin í:

| | | |
|---|---|---|
| *gammel,* gamall, | *ældre,* | *ældst;* |
| *god,* góður, | *bedre,* | *bedst;* |

| | | |
|---|---|---|
| *liden,* | *mindre,* | *mindst;* |
| *mange,* | *flere,* | *flest;* |
| *megen,* | *mere,* | *mest;* |
| *nær,* nálægur, náinn, | *nærmere.* | *nærmest,* eða *næst;* |
| *ond, slem,* } illur, | *værre,* | *værst.* |

Sumar einkunnir vantar frumstig, og sumar miðstig líka, og eru þær myndaðar af atviksorðum (*Adverbia*), eða fyrirsetningum (*Præpositiones*). Þær eru:

| | | |
|---|---|---|
| (*ned* = niður), | *nedre,* neðri, | *nederst;* |
| (*over* = yfir), | *övre,* efri, | *överst;* |
| (*ind* = inn), | *indre,* innri, | *inderst;* |
| (*ud* = út), | *ydre,* ytri, | *yderst;* |
| (*for* = fyrir), | „ | *forrest,* fremstur; |
| (*bag* = á bak við, | „ | *bagerst,* aptastur; |
| (*för* = fyr), | „ | *först,* fyrstur; |
| (*siden* = síðan), | „ | *sidst,* síðastur; |
| (*mellem* = millum), | „ | *mellemst,* sem er í miðjunni. |

Margar eru þær einkunnir, er eigi geta tekið neinni stigbreytingu, t. a. m. þær, sem leiddar eru af þjóðarnöfnum, og afleiddar einkunnir, er endast á *isk* eða *et,* og ýmsar aðrar, t. a. m. *dansk, tydsk,* þýzkur, *poetisk,* skáldlegur, *forförerisk,* táldrægur, *broget, enöiet, heel,* heill, o. s. frv. Eigi geta heldur nein hluttekningarorð fengið neina stigbreytingu; en til þess að tákna miðstig og efsta stig þess konar einkunna má hafa *meer,* til að tákna miðstigið, og *mest,* til að tákna efsta stigið, og setja fyrir framan einkunnina, t. a. m. *broget, meer broget, mest broget; poetisk, meer poetisk, mest poetisk; elsket, meer elsket, mest elsket; godgjörende, meer godgjörende, mest godgjörende,* o. s. frv.

Á hinn bóginn má og tákna þá hugmyndina, að

eitthvað sje miður en annað, með því að setja *mindre* og *mindst* fyrir framan einkunnina, t. a. m. *styg*, *mindre styg*, *mindst styg; elsket*, *mindre elsket*, *mindst elsket*, o. s. frv.

Einkunnir þær, er endast á *el*, *en*, eða *er*, dragast saman í miðstigi og efsta stigi, þannig að *e* á undan *l*. *n*. *r* fellur í burtu, t. a. m. *ædel*, *ædlere*. *ædlest; beskeden*, kurteys, *beskednere beskednest; tapper, tapprere. tapprest*, o. s. frv.

Í þeim einkunnum, þar sem síðasta atkvæðið er stutt. og áherzla þó liggur á því, en einfaldur samhljóðandi fer á eptir hljóðstafnum, tvöfaldast þessi samhljóðandi í miðstigi og efsta stigi, t. a. m. *glat*, sljettur, *glattere*. *glattest*; *let, lettere, lettest*, o. s. frv.

Miðstigið er með öllu óbreytilegt, svo að myndin verður hin sama, hvort það er heldur samkyn eða hvorugkyn, eintala eða fleirtala, án greinisins eða með honum, t. a. m. *lærdere Mand*, *lærdere Barn*, *lærdere Mænd*, *den lærdere Mand*. *de lærdere Mænd*. En fari ekkert nafn á eptir einkunninni, eða hún sje höfð í stað nafns, þá er bætt við *s* í eig., eins og áður er sagt um frumstigið, t. a. m. eig. eint. *en Lærderes*, eða *den Lærderes*. eig. fleirt. *Lærderes, de Lærderes*.

Í efsta stiginu er bætt við *e*. ef ákveðni greinirinn er með, en að öðru leyti er það og óbreytilegt, t. a. m. *den lærdeste Mand*, *det smukkeste Barn; de lærdeste Mænd*, *de smukkeste Börn*. Sje ekkert nafn með einkunninni, eða sje hún höfð í stað nafns, er í efsta stiginu bætt við *s* í eig., eins og í frumstigi og miðstigi, t. a. m. *den Hvidestes*, *det Hvidestes*, *de Hvidestes*. o. s. frv.

Sem dæmi til að temja sjer beygingu einkunna, skal setja hjer nokkrar:

| | | |
|---|---|---|
| *fuld*, fullur, | *fuldere*, | *fuldest;* |
| *glad*, | *gladere*, | *gladest;* |

| | | |
|---|---|---|
| *gal*, vitstola, | *galere*, | *galest*; |
| *höi*, | *höiere*, | *höiest*; |
| *ny*, | *nyere*, | *nyest*; |
| *sand*, | *sandere*, | *sandest*; |
| *seen*, seinn, | *senere*, | *senest*; |
| *smuk*, | *smukkere*, | *smukkest*; |
| *tryg*, | *tryggere*, | *tryggest*, o. s. frv. |

## 18. gr. Töluorðin (*Numeralia; Talord*).

Frumtölurnar (*N. cardinalia; Mængdetal*) eru:

*een*, *eet*, einn, ein, eitt;
*to*, tveir, tvær, tvö;
*tre*, þrír, þrjár, þrjú;
*fire*, fjórir, fjórar, fjögur;
*fem*, fimm;
*sex*, sex;
*syv*, sjö;
*otte*, átta;
*ni*, níu;
*ti*, tíu;
*elleve*, ellefu;
*tolv*, tólf;
*tretten*, þrettán;
*fjorten*, fjórtán;
*femten*, fimmtán;
*sexten*, sextán;
*sytten*, sautján;
*atten*, átján;
*nitten*, nítján;
*tyve*, tuttugu;
*een og tyve*, tuttugu og einn, o. s. frv.;
*tredive*, þrjátíu;
*fyrretyve*, fjörutíu;
*halvtredsindstyve*, eða *halvtreds*, fimmtíu;
*tredsindstyve*, eða *treds*, sextíu;
*halvfjerdsindstyve*, eða *halvfjerds*, sjötíu;
*firdsindstyve*, eða *firs*, áttatíu;
*halvfemtsindstyve*, eða *halvfemts*, níutíu;
*hundrede*, hundrað;
*hundrede og een*, hundrað og einn;
*to hundrede*, tvö hundruð;
*tusinde*, þúsund.

Í staðinn fyrir *to* er og stundum haft *tvende*, og fyrir *tre* er stundum haft *trende*, en þær myndir eru þó

miklu sjaldhafðari. Þá er og ávallt ritað *itu* (= í tvennt; *brække, slaa itu*).

Þegar tugar og einingar eru sett saman, er einingin ávallt sett á undan tugnum, t. a. m. *to og tyve*; *fire og tredive*; *sex og halvtreds*; *syv og treds*; *otte og halvfjerds*; *ni og firs*; *fem og halvfemts*, o. s. frv., og sömuleiðis þótt stœrri tölur fari á undan, t. a. m. *hundrede tre og tyve*; *to tusinde fire* og *treds*, o. s. frv. Á hinn bóginn er einingin ávallt sett á eptir stœrri tölum, hundruðum eða þúsundum, t. a. m. *tre hundrede og ni*; *otte tusinde og tolv*, o. s. frv.

*Hundrede* og *Tusinde* eru upphaflega nöfn. *Million* og *Billion* eru ávallt höfð sem nöfn, en aldrei sem einkunnir.

Raðtölurnar (*N. ordinalia*; *Ordenstal*) eru flestar myndaðar af frumtölunum, þannig að við er bætt endingunum *te*, *nde*, eða *ende*, og eru þær þessar:

*den, det förste*, fyrsti, fyrsta;
*den anden, det andet*, annar, annað;
*den, det tredie*, þriðji;
— — *fjerde*, fjórði;
— — *femte*, fimmti;
— — *sjette*, sjötti;
— — *syvende*, sjöundi;
— — *ottende*, áttundi;
— — *niende*, níundi;
— — *tiende*, tíundi;
— — *ellevte*, ellefti;
— — *tolvte*, tólfti;
— — *trettende*, þrettándi;
— — *fjortende*, fjórtándi;
— — *femtende*, fimmtándi;
— — *sextende*, sextándi;

*den, det syttende,* sautjándi;
— — *attende,* átjándi;
— — *nittende,* nítjándi;
— — *tyvende,* tuttugasti;
— — *tredivte,* þrítugasti;
— — *fyrretyvende,* fertugasti;
— — *halvtredsindstyvende,* fimmtugasti;
— — *tredsindstyvende,* sextugasti;
— — *halvfjerdsindstyvende,* sjötugasti;
— — *firsindstyvende,* áttatugasti;
— — *halvfemtsindstyvende,* nítugasti;
— — *hundrede,* hundraðasti;
— — *tusinde,* þúsundasti.

Raðtölurnar eru, eins og sjá má, allar óbeygilegar, nema *anden*, sem í hvorugkyni er *andet*.

Þegar raðtölurnar eru samsettar, eða fleiri en ein saman, fær að eins hin síðasta raðtöluendingu, en undanfarandi töluorð, hversu mörg sem eru, eru frumtölur, t. a. m. *een og tyvende, fire og halvtredsindstyvende,* o. s. frv.

Þá eru og margföldunar tölur, og eru þær:

*enkelt,* einfaldur;
*dobbelt,* tvöfaldur;
*tredobbelt,* þrefaldur;
*firdobbelt,* fjórfaldur, o. s. frv.,

þannig að einingin er ávallt skeytt framan við *dobbelt*. Margföldunar tölur eru og myndaðar af frumtölunum og *fold* (faldur), t. a. m. *tofold, trefold, tifold,* o. s. frv., en þær myndir eru eigi eins tíðhafðar og hinar.

Auk þessara töluorða eru og til í dönsku ýms tölunöfn, t. a. m.:

*et Par,* tveir;
*et Degger,* tugur (húða);

*en Tylft,* } tylft;
*et Dusin,* }
*en Snes,* tuttugu;
*en Skok,* sextíu;
*en Ol,* áttatíu (einkum síldar eða eggja).

Enn fremur má mynda nöfn af frumtölunum, með því að bæta við endingunni *er*, t. a. m. *Toer*, *Treer*, *Femmer*, *Tier*, o. s. frv.

Tölu-atviksorð eru engin í dönsku, en til að tákna hversu opt, eru höfð töluorðin og *Gang*, sinni, t. a. m.:

| | |
|---|---|
| *een Gang*; | *förste Gang*; |
| *to Gange*; | *anden Gang*; |
| *tre Gange*; | *tredie Gang*; |
| *fire Gange*; o. s. frv. | *fjerde Gang*; o. s. frv. |

Brotatölur eru þannig ritaðar:

$^1/_2$ = *en halv*;
$1^1/_2$ = *halvanden*, *halvandet*, eða *een og en halv*, *eet og et halvt*;
$2^1/_2$ = *halvtredie* eða *to og en halv*;
$4^1/_2$ = *halvfemte*, eða *fire og en halv*; o. s. frv.
$^1/_3$ = *en Trediedeel*;
$1^1/_3$ = *en og en Trediedeel*;
$^2/_3$ = *to Trediedele*;
$^1/_4$ = *een Fjerdedeel*;
$^3/_4$ = *tre Fjerdedele*, o. s. frv.

## III. Fornöfnin *(Pronomina; Stedord)*.

### 19. gr. Persónulegu fornöfnin *(Pronomina personalia; personlige Stedord)*.

Hin persónulegu fornöfn hafa sjerstaka mynd fyrir þiggj. og þol., en engan eiganda í eint. 1. og 2. per-

sónunnar. Fornöfnin eru þau, er nú skulu greind, og beygjast þannig:

| | 1. persóna. | 2. persóna. |
|---|---|---|
| Eint. Gjör. | *jeg*, jeg, | *du*, þú, |
| þol. og þiggj. | *mig*, mig, mjer; | *dig*, þig, |
| Fleirt. Gjör. | *vi*, við, vjer, | *I*, þið, þjer, |
| þol. og þiggj. | *os*, okkur, oss, | *eder*, ykkur yður, |
| Eig. | *vores*, okkar, vor, | *eders*, ykkar, yðar. |

3. persóna.

| | apturbeygilegt. | karlk. | kvennk. | samk. | hvorugk. |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. Gjör. | „ | *han*, hann, | *hun*, hún, | *den*, | *det*, það, |
| þol. og þiggj. | *sig*, sig, sjer, | *ham*, | *hende*, | *den*, | *det*, |
| Eig. | „ | *hans*, | *hendes*, | *dens*, | *dets*, |
| Fleirt. Gjör. | „ | | *de* | | |
| þol. og þiggj. | *sig*, sjer, | | *dem* | | |
| Eig. | „ | | *deres*. | | |

Í raun rjettri er ekkert samkyn, hvorugkyn eða fleirt. til af 3. persónunni, en þessar myndir eru teknar af ábendingarfornafninu *den, det*.

Þegar einhvern skal þjera, er höfð fleirt. 3. persónunnar, og er þá rituð með stórum upphafsstöfum: *De, Dem, Deres*.

Fyrir aptan persónulegu fornöfnin er stundum sett orðið *selv* til áherzlu, en þó aldrei aptan við eig., t. a. m. *jeg selv, mig selv, du selv, dig selv*, o. s. frv.

Þegar tákna skal, að tvennt hafi áhrif hvort á annað (*pronomen reciprocum*), er haft *hinanden* (hvor annan) um tvo að eins, og *hverandre* (hverjir aðra), þegar margir eru hvoru megin.

## 20. gr. Eignarfornöfn *(Pronomina possessiva; Eiestedord).*

Eignarfornöfnin eru í dönsku:

| | samk. | hvorugk. | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | *min,* | *mit,* | Fleirt. | *mine,* minn; |
| Eint. | *din,* | *dit,* | — | *dine,* þinn; |
| | *sin,* | *sit,* | — | *sine,* sinn; |
| | *vor,* | *vort,* | — | *vore,* vor. |

þessi eignarfornöfn beygjast að öllu eins og einkunnir, er ákveðni greinirinn er eigi með þeim.

Í dönsku eru engin eignarfornöfn, heldur en í íslenzku, er svari til fleirt. 2. persónu, eða til 3. persónunnar, en í stað þeirra eru hafðir eigendur persónulegu fornafnanna, *eders*, *hans*, *hendes*, *dens*, *dets*, *deres.* Í hversdaglegu tali er þó sagt *jer*, *jert*, *jere* í stað *eders*, en varla haft í bókmáli.

Í stað *deres*, þegar það er í stað eignar fornafns, vilja sumir hafa *sin*, *sit*, *sine*, þótt um marga sje talað, eins og t. a. m. í íslenzku.

þegar *vor* á að standa einstakt, eða ekkert nafn fer á eptir því, er haft *vores* í stað þess, t. a. m. *det er vort Skib*, en *Skibet er vores.* Á sama hátt er í hversdaglegu tali *jeres* haft fyrir *jer* eða *jert.*

## 21. gr. Ábendingarfornöfn *(Pronomina demonstrativa; bestemmende Stedord).*

Ábendingarfornöfnin eru í dönsku:

| Eint. samk. | Eint. hvorugk. | Fleirt. öll kyn. |
|---|---|---|
| *den,* | *det,* | *de,* sá; |
| *denne,* | *dette,* | *disse,* þessi; |

| Eint. | | Fleirt. |
|---|---|---|
| samk. | hvorugk. | öll kyn. |
| *hiin*, | *hiint*, | *hine*, hinn; |
| *saadan*, | *saadant*, | *saadanne*, slíkur; |
| *samme*, | *samme*, | *samme*, sami; |
| | | *begge*, báðir. |

þegar *den* er haft í stað nafns, hefur það sömu beygingu og sje það persónulegt fornafn, en standi það á undan nafni, eða sje einkunnar-fornafn, beygist það að öllu leyti eins og greinirinn (sjá 9. gr.), t. a. m.:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *den Stol*, | *det Bord*, |
| | Eig. | *den Stols*; | *det Bords*; |
| Fleirt. | Gjör. | *de Stole*, | *de Borde*, |
| | Eig. | *de Stoles*, | *de Bordes*. |

Hin önnur ábendingarfornöfn hafa eigi aðrar myndir en þegar voru sýndar, ef nafn fer á eptir þeim, en sjeu þau í stað nafna, er bætt við *s* í eig., t. a. m. *dennes*, *dettes*, *disses*; *hiins*, *hiints*, *hines* o. s. frv.

## 22. gr. Tilvísunarfornöfn *(Pronomina relativa: henvisende Stedord)*.

Tilvísunarfornöfnin í dönsku eru þau, sem nú skal greina:

*der*, sem, sem eigi verður haft nema í gjöranda, en þó bæði í eint. og fleirt., og öllum kynjum, og er það að öllu óbreytilegt.

*som*, sem, það er og að öllu óbreytilegt, en verður haft bæði í gjöranda og líka í þol. og þiggj. í báðum tölum.

*hvem*, sem, er beygist svona:

| | samk. | hvorugk. |
|---|---|---|
| Gjör., þol. þiggj. | *hvem*, | *hvad*, |
| Eig. | *hvis*, | *hvis*. |

Samkyn þessa orðs er og stundum haft í fleirt., en hvorugkynið ekki. Fyrir gjör. var og áður haft *hvo*, en sú mynd er nú úrelt.

*hvilken*, sem, í samk., *hvilket* í hvorugk., fleirt. *hvilke*. Þetta orð hefur engan eig., en fyrir eiganda að því er haft *hvis*, bæði í eint. og fleirt.

*hvordan, hvordant, hvordanne*, hvernig á sig kominn (á lát. *qualis*).

## 23. gr. Spurningarfornöfn (*Pronomina interrogativa; spörgende Stedord*).

Þau eru: *hvem, hvad, hvilken, hvordan*, og beygjast að öllu leyti, eins og tilvísunarfornöfnin: *hvem*, *hvad*, *hvilket, hvordan*.

## 24. gr. Óákveðin fornöfn (*Pronomina indefinita; ubestemte Stedord*).

Þau fornöfn eru:

*man* (menn), sem er óbeygjanlegt og verður ekki haft nema í gjör., t. a. m. *man maa finde sig deri*, (menn verða að láta sjer það lynda); í þol. og þiggj. er í þess stað haft *en* og í eig. *ens*.

*der* (það), sem og er óbeygjanlegt, og eigi nema í gjör.: er það haft bæði með gjörsögnum og þolsögnum, t. a. m. *der siges, at* (það er sagt, að); *der er neppe nogen, som troer det* (það er varla sá maður, að hann trúi því).

*det* (það), líka óbeygjanlegt, og er haft með persónulausum sögnum; t. a. m. *det regner* (það rignir). *det sneer* (það snjóar).

Enn fremur:

| Eint. samk. | Eint. hvorugk. | Fleirt. öll kyn. | |
|---|---|---|---|
| *en,* | *et,* | „ | einhver; |
| *anden,* | *andet,* | *andre,* | annar; |
| *nogen,* | *noget,* | *nogle* og *nogen,* | nokkur; |
| *ingen,* | *intet,* | *ingen,* | enginn; |
| *mangen,* | *mangt,* | *mange,* | margur; |
| *hver,* | *hvert,* | „ | sjerhver; |
| *enhver,* | *ethvert,* | „ | sjerhver; |
| „ | „ | *somme,* | sumir. |

Þegar þessi fornöfn eru höfð í stað nafna, fá þau *s* í eig., t. a. m. *nogens, nogles; andens, andres,* o. s. frv.

*Nogen* í fleirt. merkir: ekki enginn, eða einhverjir. en *nogle* merkir: ekki margir, en þó fleiri en einn, t. a. m. *er ingen hjemme* (er enginn heima)? *Jo, nogen* (einhverjir). *Er der mange? Nei, kun Nogle* (nei. fáeinir).

## IV. Sagnir (*Verba; Gjerningsord*).

### 25. gr. Almennar athugasemdir um parta sagnanna.

Beyging sagna í dönsku er enn einfaldari. en í íslenzku. þó hafa þær bæði gjörsagnarmynd (*forma activa: Handleform*) og þolsagnarmynd (*forma passiva: Lideform*). og eru þolsagnarmyndirnar myndaðar með því mótinu, að bætt er við gjörsagnarmyndina *s* eða *es*.

Hættir (*modi, Maader*) sagna í dönsku ósamsettir eru þeir, er nú skulu greindir:

1. Framsöguháttur (*m. indicativus*; *den fremsættende Maade*), er myndast af stofninum, með því að bœta við *er* í eint., en *e* að eins í fleirt., t. a. m. *elsker*, *elske*, elska.
2. Óskarháttur (*m. optativus*: *den önskende Maade*), og myndast hann af stofninum, með því að við er bœtt *e*, t. a. m. *elske*.
3. Skipunarháttur (*m. imperativus*; *den bydende Maade*), og er hann í eint. optast stofninn óaukinn, t. a. m. *elsk*. Skipunarháttur hefur eigi nema 2. persónu eint. og fleirt., en hvorki 1. eða 3.
4. Nafnháttur (*m. infinitivus*; *Navneformen*), og er ending hans ávallt *e*, t. a. m. *at elske*.

Auk þess eru hluttekningarorðin tvö, eins og í íslenzku: hluttekningarorð núlegs tíma (*Participium præsens*; *Nutidens Tillægsform*) með endingunni *ende*, t. a. m. *elskende*; en hluttekningarorð liðins tíma (*P. præteritum*), með endingunni *et* eða *en*, t. a. m. *elsket*, *reven*. Enn fremur er sagnarbótin (*Biformen*), sem í gjörsagnarmynd er eins og hvorugkynið af hluttekningarorði lið. tíma, en í þolsagnarmynd endast á *edes*, *ets* eða *tes*; sbr. 38. gr.

Í framsöguhætti eru tíðirnar tvær, núleg tíð (*tempus præsens*; *Nutid*) og þáleg tíð (*t. imperfectum*: *Datid*), en í hinum háttunum einungis ein, núleg tíð. Skuli aðrar tíðir hafa, verður að mynda þær með því, að setja sögnina saman við aðrar sagnir (hjálparsagnir), eins og í íslenzku, og skal um það síðar talað.

Tölurnar eru að eins frábrugðnar hvor annari í núlegum tíma framsöguháttar gjörs.; og endast eint. þar á *er*, en fleirt. á *e*, og í skipunarhætti gjörs., og er eint. þar endingarlaus, en fleirt. endast á *er*, t. a. m. framsöguh. *jeg elsker*, *vi elske*; skipunarháttur eint. *elsk*, fleirt. *elsker*.

Persónurnar í hverri tölu fyrir sig eru allar eins að endingunni til, og verður því að greina þær alstaðar í sundur með fornöfnum.

Í þolsagnar myndum sagna er alls enginn munur á tölum eða persónum. Einkennismyndir sagna eru: þáleg tíð og hlutteknigarorð liðins tíma, og eptir þeim myndum er sögnunum í dönsku rjettast skipt í tvo aðalflokka; er beyging fyrri flokksins einfaldari og reglulegri, en hins síðara. En hvorum þessara flokka má aptur skipta í ýmsa smærri flokka. Sagnir fyrra aðalflokksins endast í þál. tíð ávallt á *de* eða *te*, og greinist í þrjá smærri flokka. Í 1. flokknum myndast þál. t. með því mótinu, að *ede* er bætt við stofninn, og er því þriú atkvæði: 2. flokkurinn hefur endinguna *te* eða *de*, og er því tvö atkvæði; og sömu endingu hefur 3. flokkurinn, en auk þess breytist hljóðstafur meginhlutans.

Þáleg tíð í öllum þeim sögnum, er teljast til hins annars aðalflokksins, er ávallt eitt atkvæði, og því endingarlaus, en hljóðstafur meginhlutans verður optast í þálegri tíð annar, en hann var í núl. t. Eptir hljóðstaf þeim, sem er í meginhluta sagnarinnar í þál. t., má skipta þessum aðalflokknum í sex smærri flokka, en eptir hlutteknigarorði liðins tíma má telja tvær beygingar þessa aðalflokksins; er önnur beygingin sú, er hlutteknigarorð lið. t. hefur sama hljóðstaf og núl. t. framsöguh., en hin, er hljóðstafurinn verður sinn á hvorum staðnum.

Yfirlit það yfir beygingar sagna, er hjer fer á eptir, mun skýra það, er nú hefur verið sagt.

## Fyrri beygingin.

| | Núl. t. | Þál. t. | Hlutteknigarorð l. t. |
|---|---|---|---|
| 1. flokk. | *jeg klager*, | *klagede*, | *klaget* (kvarta); |
| 2. — | *jeg brænder*, | *brændte*, | *brændt* (brenna); |
| 3. — | *jeg fölger*, | *fulgte*, | *fulgt* (fylgja). |

## 2. beygingin.

a) Fyrri flokkurinn:

| | Núl. t. | Þál. t. | Hluttekningarorð l. t. |
|---|---|---|---|
| 1. flokk. | *jeg beder*, | *bad*, | *bedet*, biðja; |
| 2. — | *jeg faaer* (framb. *for*), | *fik*, | *faaet*, fá; |
| 3. — | *jeg lader*, | *lod*, | *ladet*, láta. |

b) Síðari flokkurinn:

| | Núl. t. | Þál. t. | Hluttekningarorð l. t. |
|---|---|---|---|
| 1. flokk. | *jeg drikker*, | *drak*, | *drukken*, drekka; |
| 2. — | *jeg river*, | *rev*, | *reven*, rífa; |
| 3. — | *jeg byder*, | *böd*, | *buden*, bjóða. |

## 26. gr. Fyrri beygingin.

Sem dæmi hennar skal hjer hafa: *jeg elsker*, jeg elska; *jeg hörer*, jeg heyri; *jeg lægger*, jeg legg, og verður beyging þeirra svona:

### Gjörsögn.

Framsöguháttur:

| | | 1. fl. | 2. fl. | 3. fl. |
|---|---|---|---|---|
| Núl. t. | Eint. | *elsker*, | *hörer*, | *lægger*, |
| | Fleirt. | *elske*, | *höre*, | *lægge*. |

Óskarháttur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Núl. t. | Eint. | *elske*, | *höre*, | *lægge*, |
| | Fleirt. | *elske*, | *höre*, | *lægge*. |

Skipunarháttur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Núl. t. | Eint. | *elsk*, | *hör*, | *læg*, |
| | Fleirt. | *elsker*, | *hörer*, | *lægger*. |

| | 1. fl. | 2. fl. | 3. fl. |
|---|---|---|---|
| Nafnháttur. | (at) *elske*, | (at) *höre*, | (at) *lægge*. |
| Hlutteknigarorð nút. t. | *elskende*. | *hörende*. | *læggende*. |

### Þolsögn.

Framsöguháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nút. t. Eint. og fleirt. | *elskes*, | *höres*, | *lægges*, |
| Þát. t. Eint. og fleirt. | *elskedes*, | *hörtes*. | *lagdes*. |

Óskarháttur og skipunarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nút. t. Eint. og fleirt. | *elskes*. | *höres*. | *lægges*. |
| Nafnháttur. | (*at*) *elskes*. | (*at*) *höres*. | (*at*) *lægges*. |
| Hlutteknigarorð lið. t. Eint. | *elsket*. | *hört*, | *lagt*. |
| Fleirt. | *elskede*, | *hörte*, | *lagte*. |

## 27. gr. Um 1. flokkinn.

Sem dœmi upp á fyrsta flokkinn má enn fremur telja:

| Nút. t. | Þát. t. | Hlutteknt. orð. |
|---|---|---|
| *vander*, | *vandede*, | *vandet*, vatna; |
| *strander*. | *strandede*. | *strandet*. stranda: |
| *henter*, | *hentede*, | *hentet*, sœkja; |
| *agter*, | *agtede*, | *agtet*, ætla; |
| *arbeider*, | *arbeidede*. | *arbeidet*. vinna. |

Í sumum þeim sögnum, er þrír samhljóðendur fara á eptir hljóðstaf meginhluta þeirra, er endingar *-e* rjettar haldið í skipunarhætti, t. a. m. *handle, som du vil behandles* (breyttu, eins og þú vilt láta breyta við þig); eins *vandre*, gakktu; *forandre*, umbreyttu; í hversdaglegu tali er þó sagt: *hand'l, forand'r*.

Sagnir þær, er enginn samhljóðandi fer á eptir hljóðstaf meginhluta þeirra, eru þrenns konar; 1. þær, sem

endast á *ier* eða *uer* í núl. tíma framsöguh., eru að öllu reglulegar. 2. Í þeim, sem endast á *yer*, er *e* í fleirt. núl. t. framsöguh. og nafnhætti óheyrilegt, enda þótt margir enn riti það; en Rask heitinn gaf þá reglu, að því skyldi og sleppa í riti. 3. Allar aðrar sagnir eru eptir framburðinum eitt atkvæði að eins í báðum tölum núl. t. framsöguháttar, og eins í nafnhætti, enda hefur Rask heitinn sagt, að eigi skyldi rita *e* á eptir hljóðstaf meginhlutans, en margir rita þó svo enn: þannig t. a. m.:

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *bi-er, bi-e,* | *bi-ede,* | *bi-et,* bíða; |
| *su-er, su-e,* | *su-ede,* | *su-et,* sjúga; |
| *fly-er, fly-e,* | *fly-ede,* | *fly-et,* flýja; |
| *sky-er, sky-e,* | *sky-ede,* | *sky-et,* forðast; |
| *sneer* (þ. e. *sner*), *snee* (þ. e. *sne*), | *sne-ede,* | *sne-et,* snjóa; |
| *teer (-ter), tee (-te),* | *te-ede,* | *te-et,* tjá, sýna; |
| *boer (-bor), boe (-bo),* | *bo-ede,* | *bo-et,* búa; |
| *troer (-tror), troe (-tro),* | *tro-ede,* | *tro-et,* trúa; |
| *naaer (-naar), naae (-naa),* | *naa-ede,* | *naa-et,* ná; |
| *saaer (-saar), saae (-saa),* | *saa-ede,* | *saa-et,* sá; |
| *ströer (-strör), ströe (-strö),* | *strö-ede,* | *strö-et,* strá. |

Í sögninni *dier*, sjúga, er þó sagt *at di* (nafnh.), og eins er sagt *du*, fyrir *du-e*, fleirt. núl. t. og nafnháttur af sögninni *du-er*, duga.

## 28. gr. Um 2. flokkinn.

Sem dæmi annars flokksins má hjer setja sagnirnar:

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *föder,* | *födte,* | *födt,* fæða; |
| *kjender,* | *kjendte,* | *kjendt,* þekkja; |
| *lærer,* | *lærte,* | *lært,* læra, nema; |
| *nöder,* | *nödte,* | *nödt,* neyða; |
| *taber,* | *tabte,* | *tabt,* missa; |

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *tænker,* | *tænkte,* | *tænkt,* hugsa; |
| *vender,* | *vendte,* | *vendt,* snúa; |
| *volder,* | *voldte,* | *voldt,* olla. |

Ýmsar sagnir eru þær í dönsku, sem beygðar eru bæði eptir 1. og 2. fl., og er styttri myndin þó öllu tíðhafðari, t. a. m. *at kalde*, kalla, þál. t. *kaldede* eða *kaldte; at tale,* tala, þál. t. *talede,* eða *talte.*

Í nokkrum óreglulegum sögnum þessa flokksins er ending þál. t. *de,* t. a. m.:

| Núl. t. | | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|---|
| *har,* | fleirt. *have,* | *havde,* | *havt,* hafa; |
| *vil,* | — *ville,* | *vilde,* | *villet,* vilja; |
| *döer* (þ. e. *dör*) | — *döe* (þ. e. *dö*), | *döde,* | „ deyja; |
| *skeer* (þ. e. *sker*) | — *skee* (*-ske*), | *skede* (líka *skete*) | *skeet* (þ. e. *sket*), bera við. |

*har* er samandregin mynd fyrir *haver*, og því er fleirt. *have,* og núl. t. þolsagnar *haves.*

Hluttekningarorð lið. t. af *döe* ætti að vera *döet*; en það er eigi til, og er eink. *död*, dauður, höfð í þess stað.

## 29. gr. Um 3. flokkinn.

Sem dæmi upp á þriðja flokkinn skal telja hjer nokkrar sagnir:

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *bringer,* | *bragte,* | *bragt,* flytja; |
| *dölger,* | *dulgte,* | *dulgt,* dylja; |
| *flækker,* | *flakte,* | *flakt,* kljúfa; |
| *fölger,* | *fulgte,* | *fulgt,* fylgja; |
| *kvæler,* | *kvalte,* | *kvalt,* kyrkja; |
| *rækker,* | *rakte,* | *rakt,* ná til; |
| *siger,* | *sagde,* | *sagt,* segja; |

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *smörer,* | *smurte,* | *smurt,* smyrja; |
| *spörger,* | *spurgte,* | *spurgt,* spyrja; |
| *sælger,* | *solgte,* | *solgt,* selja; |
| *strækker,* | *strakte,* | *strakt,* þenja; |
| *sætter,* | *satte,* | *sat,* setja; |
| *tækker,* | *takte,* | *takt,* þekja; |
| *tæller,* | *talte,* | *talt,* telja; |
| *vækker,* | *vakte,* | *vakt,* vekja; |
| *vælger,* | *valgte,* | *valgt,* velja; |
| *vænner,* | *vante,* | *vant,* venja. |

Sumir rita og *kvælede, tællede, rækkede, strækkede, tækkede, vækkede, vænnede,* enda mun sú mynd þriggja hinna síðustu orða nú orðin almennari bæði í tali og riti.

Þessar sagnir eru óreglulegar:

| Nafnh. | Framsöguh. Núl. t. Eint. | Núl. t. Fleirt. | Þál. t. | Hlutteku. orð. |
|---|---|---|---|---|
| *at gjöre,* | *gjör,* | *gjöre,* | *gjorde,* | *gjort,* gjöra; |
| *at turde,* | *tör,* | *tör,* | *turde,* | *turdet,* þora; |
| *at burde,* | *bör,* | *bör,* | *burde,* | *burdet,* byrja, eiga; |
| *at maatte,* | *maa,* | *maa,* | *maatte,* | *maattet,* hljóta, mega; |
| *at kunne,* | *kan,* | *kunne,* | *kunde,* | *kunnet,* kunna; |
| *at skulle,* | *skal,* | *skulle,* | *skulde,* | *skullet,* skulu; |
| *at vide,* | *veed,* | *vide,* | *vidste,* | *vidst,* vita. |

## 30. gr. Önnur beyging.

Sem dæmi hinnar annarar beygingar eru: *giver* (gefa); *faaer* (þ. e. *faar*) (fá); *drager* (draga); *finder* (finna); *driver* (reka); *stryger* (strjúka); og beygjast þessar sagnir þannig:

Gjörsögn.

Framsöguháttur:

| | 1. fl. | 2. fl. | 3. fl. |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. | *giver,* | *faaer,* | *drager,* |

| | 1. fl. | 2. fl. | 3. fl. |
|---|---|---|---|
| Fleirt. | *give,* | *faae,* | *drage.* |
| Þál. t. Eint. | *gav,* | *fik.* | *drog,* |
| Fleirt. | *gave,* | *fik,* | *droge.* |

Óskarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. t. | *give,* | *faae,* | *drage.* |

Skipunarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. | *giv,* | *faae,* | *drag,* |
| Fleirt. | *giver,* | *faaer,* | *drager.* |
| Nafnháttur | (*at*) *give,* | (*at*) *faae,* | (*at*) *drage.* |
| Hluttekn. orð núl. t. | *givende,* | *faaende.* (sjaldhaft). | *dragende.* |

## Þolsögn.

Framsöguháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. og fleirt. | *gives,* | *faaes,* | *drages;* |
| Þál. t. Eint. og fleirt. | *gaves,* | *fikkes* (sjaldhaft), | *droges.* |

Óskarháttur og skipunarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. og fleirt. | *gives,* | *faaes,* | *drages.* |
| Nafnháttur. | (*at*) *gives,* | (*at*) *faaes,* | (*at*) *drages.* |
| Hlutekn. orð lið. t. Eint. | *given, -et,* | *faaet,* | *dragen, -et.* |
| Fleirt. | *givne,* | *faaede,* | *dragne.* |

## Gjörsögn.

Framsöguháttur.

| | 4. fl. | 5. fl. | 6. fl. |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. | *finder,* | *driver,* | *stryger;* |
| Fleirt. | *finde,* | *drive,* | *stryge.* |
| Þál. t. Eint. | *fandt,* | *drev,* | *strög;* |
| Fleirt. | *fandt,* | *dreve,* | *ströge.* |

Óskarháttur.

| | 4. fl. | 5. fl. | 6. fl. |
|---|---|---|---|
| Núl. tíð. | *finde*, | *drive*, | *stryge*. |

Skipunarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. tíð, Eint. | *find*, | *driv*, | *stryg*; |
| Fleirt. | *finder*, | *driver*; | *stryger*. |
| Nafnháttur. | (*at*) *finde*, | (*at*) *drive*, | (*at*) *stryge*. |
| Hlutteku. orð núl. t. | *findende*, | *drivende*. | *strygende*. |

**Þolsögn.**

Framsöguháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. og fleirt. | *findes*, | *drives*, | *stryges*. |
| Þál. t. Eint. og fleirt. | *fandtes*, | *dreves*. | *ströges*. |

Óskarháttur og skipunarháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. og fleirt. | *findes*, | *drives*, | *stryges*. |
| Nafnháttur. | (*at*) *findes*, | (*at*) *drives*, | (*at*) *stryges*. |
| Hlutteku. orð lið. t. Eint. | *funden*, *-et*, | *dreven*, *-et*, | *strögen*, *-et*. |
| Fleirt. | *fundne*, | *drevne*, | *strögne*. |

Hluttekningarorð liðins tíma er í mörgum sögnum annarar beygingarinnar að eins í hvorugkyni sem sagnarbót, og svo er það alltíðast í þremur fyrstu flokkunum; í mörgum sögnum endast það á *en* í samkyninu, og í fleirt. á *ne* í báðum kynjum, og það er alltíðast í þremur síðari flokkunum; en sem sagnarbót er ávallt haft hvorugkyn hluttekningarorðs lið. t. á *et*.

## 31. gr. Um 1. flokkinn.

Nú skal telja sagnir þær, er teljast til fyrsta flokksins, og er einkenni þessa flokksins það, að hljóðstafurinn í meginhluta þál. t. er *a*, og optast langt; þess skal og

getið, þar sem fleirtala þál. t. er eigi eins og eint., eða hefur fleirtöluendingu, og sömuleiðis, ef samkyn eða fleirt. er til af hluttekningarorði lið. t., og er þó opt, að í tali, og eins í riti, að fleirt. er endingarlaus, þótt fleirtöluendingunni ætti að rjettu lagi við að bæta.

| Núl. t. | Þál. t. | Hlutteku. orð. |
|---|---|---|
| *beder,* | *bad, -e,* | *bedet, bedt, -e,* biðja; |
| *falder,* | *faldt,* | *falden, -et, -ne,* falla; |
| *gider,* | *gad, -e,* | *gidt,* nenna, fá af sjer; |
| *gjælder,* | *gjaldt,* | *gjældt,* gilda; |
| *hænger,* | *hang,* | *hængt, -e,* hanga; |
| *klinger,* | *klang,* | *klinget,* hljóma; |
| *knækker,* | *knak,* | *knækket, -de,* brotna; |
| *kvæder,* | *kvad, -e,* | *kvædet,* kveða, syngja: |
| *sidder,* | *sad, -e,* | *siddet,* sitja; |
| *skjælver,* | *skjalv.* | *skjælvet,* skjálfa; |
| *smækker,* | *smak.* | *smækket,* skella; |
| *stinker,* | *stank,* | *stinket,* þefa; |
| *tier,* | *taug,* | *tiet,* þegja; |
| *ligger,* | *laa,* | *ligget,* liggja: |
| *seer,* | *saa* (optast ritað *saae*), | *seet, -e,* sjá; |
| *æder,* | *aad,* | *ædt, -e,* jeta; |
| *bærer,* | *bar, -e,* | *baaren, -et, -ne,* bera; |
| *skærer,* | *skar, -e,* | *skaaren, -et, -ne,* skera; |
| *stjæler,* | *stjal,* | *stjaalen, -et, -ne,* stela. |

Fyrir *klang, skjalv, taug* rita sumir *klingede. skjælvede, tiede,* og beygja þá þessar sagnir eptir 1. flokki fyrri beygingarinnar, og fyrir *gjaldt* er ritað *gjældte,* og er þá *gjælde* beygt eptir 2. flokki fyrri beygingarinnar.

Sögnin *at være,* vera. er með öllu óregluleg og beygist þannig:

| | | Framsöguh. | Óskarh. | Skipunarh. |
|---|---|---|---|---|
| Núl. t. | Eint. | *er,* | *være,* | *vær;* |
| | Fleirt. | *ere,* | *være,* | *værer.* |
| | | | Nafnh. | Hlutteku. orð. |
| Þál. t. | Eint. | *var,* | | |
| | Fleirt. | *vare,* | (*at*) *være,* | *værende.* |

Sagnarbót.
*været.*

## 32. gr. Um 2. flokkinn.

Til annars flokksins teljast að eins fjögur orð:

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *faaer,* | *fik,* | *faaet;* |
| *gaaer* (þ. e. *gaar),* | *gik,* | *gaaet,* ganga; |
| *hedder,* | *hed,* | *hedt,* heita; |
| *græder,* | *græd,* | *grædt,* gráta. |

Sagnirnar *gaaer, hedder, græder* hafa alls enga þolmynd, en *begræder* (gráta einhvern) er haft í þolmynd, og er regluleg beyging þess. Af *gaaer* er mynduð þolsögnin *omgaaes*, umgangast, þál. t. *omgikkes*, sagnarbót *omgaaets*, eða *omgaaedes*, en er eigi haft í gjörsagnarmyndinni (*activum*).

Af *gaaer* var hluttekningarorð liðins t. áður *gangen, ganget,* fleirt. *gangne*, en er nú eigi haft, nema í samsettu einkunninni *forbigangen*, liðinn.

## 33. gr. Um 3. flokkinn.

Einkenni þessa flokksins er það, að hljóðstafur meginhluta þál. tíð. er *o*. Til þess flokksins teljast sagnir þær, er nú skulu greindar:

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *drager,* | *drog, -e,* | *dragen, -et, -ne,* draga; |
| *farer,* | *foer* (þ. e. *for), fore,* | *faren, -et, -ne,* fara; |
| *erfarer,* | *erfoer, -e* og *erfarede,* | *erfaren, -et, -ne,* reyna; |
| *galer,* | *gol* og *galede,* | *galet,* gala; |
| *graver,* | *grov, -e* og *gravede,* | *gravet, -de,* grafa; |
| *jager,* | *jog, -e* og *jagede,* | *jaget, -de,* reka, veiða; |
| *lader,* | *lod, -e,* | *ladet, ladte,* láta; |
| *leer* (þ. e. *ler),* | *lo,* | *leet* þ. e. *let,* hlægja; |
| *slaaer* (þ. e. *slaar),* | *slog,* | *slaaet, -de,* slá; |
| *staaer* (þ. e. *staar),* | *stod, -e,* | *staaet,* standa; |
| *sværger,* | *svor, -e,* | *svoren, -et, -ne,* sverja; |
| *tager,* | *tog, -e,* | *tagen, -et, -ne,* taka; |
| *veier,* | *vog,* og *veiede,* | *veiet, -de,* vega; |
| *væver* | *vov, -e,* og *vævede,* | *vævet, -de,* vefa. |

Enn fremur þessar fjórar sagnir, er hljóðstafur meginhluta þeirra eigi breytist:

| | | |
|---|---|---|
| *holder,* | *holdt,* | *holdt, -e,* halda; |
| *kommer,* | *kom,* | *kommen, -et, -ne,* koma; |
| *sover,* | *sov,* | *sovet,* sofa; |
| *hugger,* | *hug,* | *hugget,* höggva. |

Þál. t. af *jage* er þá höfð *jog*, er það þýðir að reka burtu, en *jagede*, er það þýðir að vera á veiðum. *Erfarede* er miklu tíðhafðara en *erfor*. Hluttekningarorð lið. t. af *begrave*, jarða, er *begraven*, *-et*, *-ne*. Af *slaaer* er og til hluttekningarorð lið. t. *slagen*, *slaget*, *-ne*, en sem nú þykir heldur fornlegt. Af *forstaaer*, skilja, er hluttekningarorð l. t. *forstaaet*, fleirt. *forstaaede*, Af *holder* er og til önnur mynd af hluttekningarorðinu, *holden*, *-et*, *-ne*, en sem nú er úrelt, og að eins höfð sem einkunn (velmegandi, og *heel og holden*, með heilu og höldnu).

## 34. gr. Um 4. flokkinn.

Einkenni þessa flokksins er stutt *a* í meginhluta þál. t., og *u* í hluttekningarorði lið. t., og eru þær sagnir helztar, er nú skulu greindar, er teljast til þessa flokksins:

| Núl. t. | Þál. t. | Hlutekn. orð. |
|---|---|---|
| *binder,* | *bandt,* | *bunden, -et, -ne,* binda; |
| *brister,* | *brast,* | *brusten, -et, -ne,* bresta; |
| *drikker* | *drak,* | *drukken, -et, -ne,* drekka; |
| *rinder,* | *randt,* | *runden, -et, -ne,* renna; |
| *slipper,* | *slap,* | *sluppen, -et -ne,* sleppa; |
| *spinder,* | *spandt,* | *spunden, -et, -ne,* spinna; |
| *springer,* | *sprang,* | *sprungen, -et, -ne,* stökkva; |
| *stikker,* | *stak,* | *stukken, -et, -ne,* stinga; |
| *svinder,* | *svandt,* | *svunden, -et, -ne,* hverfa; |
| *svinger,* | *svang,* | *svungen, -et, -ne,* veifa; |
| *tvinder,* | *tvandt,* | *tvunden, -et, -ne,* tvinna; |
| *tvinger,* | *tvang,* | *tvungen, -et, -ne,* neyða; |

| Núl. t. | Þál. t. | Hlutt. orð. |
|---|---|---|
| *vinder,* | *vandt,* | *vunden, -et, -ne,* vinna; |
| *fornemmer,* | *fornam,* | *fornummen, -et,* verða var við; |
| *synger,* | *sang,* | *sungen, -et, -ne,* syngja; |
| *synker,* | *sank,* | *sunken, -et, -ne,* sökkva; |
| *brækker,* | *brak,* | *brukken, -et, -ne,* brotna; |
| *hjælper,* | *hjalp,* | *hjulpen, -et, -ne,* hjálpa; |
| *sprækker,* | *sprak,* | *sprukken, -et, -ne,* springa; |
| *træffer,* | *traf,* | *truffen, -et, -ne,* hitta; |
| *trækker,* | *trak,* | *trukken, -et, -ne,* draga. |

*Brækker* er að öllum jafnaði beygt eptir fyrri beygingunni, 1. fl., þál. t. *brækkede*, hlutekningarorð liðins t. *brækket*; en að rjettu lagi ætti sú beyging þess að vera höfð að eins, er það þýðir að brjóta.

## 35. gr. Um 5. flokkinn.

Einkenni þessa flokksins er langt *e* í meginhluta þál. t., og teljast til þess flokksins sagnir þær, er nú skulu greindar:

| Núl. t. | Þál. t. | Hlutt. orð. |
|---|---|---|
| *bider,* | *bed, -e,* | *bidt, -e,* bíta; |
| *hviner,* | *hveen,* | *hvint,* hvína; |
| *lider,* | *led, -e,* | *lidt, -e,* líða; |
| *slider,* | *sled, -e,* | *slidt, -e,* slíta; |
| *smider,* | *smed, -e,* | *smidt, -e,* fleygja; |
| *triner,* | *treen,* | *trint, -e,* feta; |
| *bliver,* | *blev, -e,* | *bleven, -et, -ne,* verða; |
| *driver,* | *drev, -e,* | *dreven, -et, -ne,* reka; |
| *glider,* | *gled, -e,* | *gleden, -et, -ne,* skriðna, renna; |
| *gnider,* | *gned, -e,* | *gneden, -et, -ne,* núa; |
| *griber,* | *greb, -e,* | *greben, -et, -ne,* grípa; |
| *kniber,* | *kneb, -e,* | *kneben, -et, -ne,* klípa; |
| *piber,* | *peb, -e,* | *peben, -et, -ne,* skrækja; |
| *rider,* | *red, -e,* | *reden, -et, -ne,* ríða; |
| *river,* | *rev, -e,* | *reven, -et, -ne,* rífa; |
| *skrider,* | *skred, -e,* | *skreden, -et, -ne,* feta; |
| *skriger,* | *skreg, -e,* | *skregen, -et, -ne,* æpa; |

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *skriver,* | *skrev, -e,* | *skreven, -et, -ne,* skrifa; |
| *sliber,* | *sleb, -e,* | *sleben, -et, -ne,* brýna; |
| *sniger,* | *sneg, -e,* | *snegen, -et, -ne,* læðast; |
| *stiger,* | *steg, -e,* | *stegen, -et, -ne,* stíga; |
| *strider,* | *stred, -e,* | *stredet* og *stridt,* berjast; |
| *svider,* | *sved, -e,* | *sveden, -et, -ne,* svíða; |
| *sviger,* | *sveg, -e,* | *svegen, -et, -ne,* svíkja; |
| *viger,* | *veg, -e,* | *vegen, -et, -ne,* víkja; |
| *vrider,* | *vred, -e,* | *vreden, -et, -ne,* vinda. |

## 36. gr. Um 6. flokkinn.

Til þessa flokksins teljast þær sagnir, er hafa langt *ö* í meginhluta þál. t., og eru þær, er nú skulu greindar:

| Núl. t. | Þál. t. | Hluttekn. orð. |
|---|---|---|
| *flyver,* | *flöi,* | *flöien, -et, -ne,* fljúga; |
| *fyger,* | *fög,* | *föget,* fjúka; |
| *kryber,* | *kröb, -e,* | *kröben, -et, -ne,* skríða; |
| *lyver,* | *löi,* | *löiet,* ljúga; |
| *ryger,* | *rög,* | *röget, -de,* rjúka; |
| *stryger,* | *strög, -e,* | *strögen, -et, -ne,* strjúka; |
| *bryder,* | *bröd, -e,* | *brudt, -e,* brjóta; |
| *byder,* | *böd, -e,* | *budt, -e,* bjóða; |
| *fortryder,* | *fortröd, -e,* | *fortrydt,* iðrast; |
| *fryser,* | *frös, (-e),* | *frussen, -et, -ne,* frjósa; |
| *skyder,* | *skjöd, -e,* | *skudt, -e,* skjóta; |
| *flyder,* | *flöd, (-e),* | *flydt, -e,* fljóta; |
| *fnyser,* | *fnös, (-e),* | *fnyst,* snugga; |
| *gyder,* | *göd, -e,* | *gydt, -e,* hella; |
| *gyser,* | *gös,* | *gyst,* hrylla; |
| *kyser,* | *kös,* | *kyst,* hræða; |
| *klyver,* | *klöv,* | *klyvet* og *klövet,* klifrast; |
| *lyder,* | *löd, -e,* | *lydt, -e,* hljóma; |
| *nyder,* | *nöd, -e,* | *nydt, -e,* njóta; |
| *nyser,* | *nös,* | *nyst,* hnerra; |
| *skryder,* | *skröd, -e,* | *skrydt,* rymja; |
| *snyder,* | *snöd, -e,* | *snydt, -e,* snýta; |
| *löber,* | *löb,* | *löben, -et -ne,* hlaupa. |

*Fyge* og *skryde* eru líka beygð eptir 1. flokki fyrri beygingarinnar, *fygede*, *fyget*, *skrydede*, *skrydet*. Af *fnyse*, *gyse*, *kyse*, *nyse* er þál. t. og mynduð eptir 2. fl. fyrri beygingarinnar, *fnyste*, *gyste*, *kyste*, *nyste*.

Enn fremur ber þess að geta, að auk þess sem tvær sagnir geta verið eins í nafnhætti og núl. t. framsöguháttar, og þó ólíkar í þál. t., með því þær eru ólíkrar merkingar og sín af hvorri rótinni runnin, eins og t. a. m. *lade*, *lod*, *ladet* (að láta), og *lade*, *ladede*, *ladet* (að hlaða), þá eru og ýmsar sagnir, er beygjast bæði eptir fyrri og síðari beygingunni, og eru þá áhrifsmerkingar (*transitiva*), er þær beygjast eptir hinni fyrri beygingunni, en hvorkynlegrar merkingar (*intransitiva*), er þær beygjast eptir hinni síðari; þannig t. a. m. *hænge*, *hængte*, *hængt*, að hengja, en *hænge*, *hang*, *hængt*, að hanga; *brække*, *brækkede*, *brækket*, að brjóta, en *brække*, *brak*, *brukket*, að brotna; *knækker*, *knækkede*, *knækket*, að brjóta, en *knække*, *knak* eða *knækkede*, *knækket*, að brotna.

## 37. gr. Um hjálparsagnirnar (*verba auxiliaria: Hjelpeord*).

Hjálparsagnir kallast þær sagnir, sem hafðar eru, til að mynda með þær tíðir, sem eigi eru sjerstakar myndir fyrir af sögnunum sjálfum, og eru þær hinar sömu og í íslenzku, þ. e. núliðin tíð (*tempus præteritum perfectum*, *Förnutid*), þáliðin tíð (*tempus præteritum plusquamperfectum*, *Fördatid*), og ókomna tíðin (*tempus futurum*, *Fremtid*); en hjálparsagnirnar eru: *have*, *være*, *skulle*, *ville*, *blive* og *faaer*, og er getið um beygingu þeirra áður.

Núlið. t. sagna er mynduð með núlegum tíma af *have* (*har*, *have*) og *være* (*er*, *ere*), og sagnarbót aðalsagnarinnar, og þálið. t. er mynduð með þálegum tíma

af *have* (*havde*) og *være* (*var*, *vare*), og hluttekningarorði lið. t. aðalsagnarinnar, t. a. m. *jeg har hört* (jeg hef heyrt), *vi have hört* (vjer höfum heyrt), *jeg* (*vi*) *havde hört* (jeg hafði heyrt, vjer höfðum heyrt); *jeg er kommen*, *vi ere komne* (jeg er kominn, vjer erum komnir); *jeg var kommen*, *vi vare komne* (jeg var kominn, vjer vorum komnir). Hvort hafa skuli *have* eða *være*, má að mestu fara eptir íslenzkunni, með því *have* er þá haft, er vjer höfum hafa, og *være*, er vjer höfum vera, eða með öðrum orðum, að *have* er haft, til að mynda núlið. og þálið. t. af áhrifssögnum, en *være*, til að mynda með núlið. og þál. t. af ýmsum hvorkynlegum sögnum, og svo öllum þolsögnum, og er þá í raun rjettri sleppt *bleven* (*blevet*, *blevne*). Líka er sagt, *har kommet*, *har gaaet*, *havde kommet*, *havde gaaet*; *har været elsket*, *havde været elsket*.

*Blive* og hluttekningarorð lið. t. aðalsagnarinnar má hafa til þess, að mynda með allar þolsagnar-myndir, enda er það opt gjört, eins og Íslendingar mynda þær með vera, t. a. m. *jeg bliver elsket* (jeg er elskaður), *jeg blev elsket* (jeg var elskaður), *jeg er bleven elsket* (jeg hef verið elskaður), *jeg var bleven elsket* (jeg hef verið elskaður), o. s. frv.

Til að tákna með ókomna tímann, hafa Danir núl. t. framsöguh. af *skulle* eða *ville* (*skal*, *vil*), eins og Íslendingar hafa munu, og nafnhátt aðalsagnarinnar; þó er sá munurinn, að ef *skulle* er haft, liggur optast í því, að það sje skylda eða nauðsyn, en *ville* táknar einungis, að eitthvað muni verða, t. a. m. *jeg skal skrive*, jeg á. verð að skrifa; *han vil komme*, hann kemur, hann mun koma. Líka má hafa þál. t. þessara hjálparsagna (*skulde*, *vilde*) ásamt nafnhætti aðalsagnarinnar, til þess að tákna eitthvað, sem ókomið var einhvern tíma áður (*futurum imperfectum*), eins og vjer Íslendingar höfum mundi og skyldi;

t. a. m. *han sagde jeg skulde komme,* han sagði, að jeg skyldi koma; *han lovede, at han skulde komme,* hann lofaði að koma. það er auðvitað, að *ville* með nafnhætti táknar ekki ávallt, að eitthvað muni verða, heldur líka, að það sje vilji eða ætlun þess eða þess, að gjöra það, eða *ville* er þá haft í sinni eiginlegu merkingu (að vilja).

*Faaer* er haft ásamt með hluttekningarorði lið. t., til þess að tákna, að það eða það muni verða búið, er eitthvað verði, og *fik*, til að tákna, að það eða það mundi verða, ef eitthvað annað yrði búið áður: t. a. m. *naar jeg faaer skrevet,* þegar jeg er búinn að skrifa; *naar jeg fik skrevet,* ef jeg yrði búinn að skrifa. Stundum er *fik* haft, til að tákna umliðna tímann, t. a. m. *da han fik Bogen læst, sendte han den,* hann sendi bókina, þegar hann var búinn að lesa hana. Auk þess er *faae* haft í ýmsum orðtækjum, sem aðalsögn, bæði með sagnarbót og nafnhætti, t. a. m. *jeg faaer vel gjöre det,* jeg verð líklega að gjöra það; *faa mig den Bog kjöbt,* sjáðu um, að sú bók sje keypt handa mjer, o. s. frv.

Opt eru hafðar tvær eða fleiri hjálparsagnir saman, og yrði oflangt að telja það allt upp hjer, það verður þekking tungunnar smátt og smátt að kenna mönnum: hjer skal að eins setja fáein dæmi:

*Han har villet sige,* hann hefur ætlað að segja.
*Han skal have sagt,* hann á að hafa sagt, það er mælt, að hann hafi sagt.
*Jeg vilde have sagt,* jeg mundi hafa sagt.
*Det skal være skrevet,* það skal verða búið að skrifa það.
*Jeg har faaet det skrevet,* jeg er búinn að skrifa það.
*Det skal blive skrevet,* það skal verða skrifað.
*Det skulde blive skrevet,* það ætti að skrifa það.
*Det er blevet skrevet,* það hefur verið skrifað.

*Det var blevet skrevet*, það hafði verið skrifað.
*Det skal have været skrevet*, það er mælt, að það hafi verið skrifað.
*Det skulde have været skrevet*. það hefði átt að vera búið að skrifa það.
*Det skal være blevet skrevet*, það er mælt að það hafi verið skrifað.
*Det skulde være blevet skrevet*, það hefði átt að vera búið að skrifa það.
*Det vilde have været*, eða *være blevet skrevet*, það mundi hafa verið skrifað, o. s. frv.

Auk hjálparsagna þeirra, er greindar hafa verið. eru sumar aðrar sagnir hafðar sem hjálparsagnir, t. a. m. *maatte*, mega. hljóta; *kunne*, geta; *turde*, þora: *lade*, láta.

## 38. gr. Tegundir sagna.

Sagnir skiptast í dönsku á sama hátt og í íslenzku. þannig að sumar eru áhrifssagnir (*verba transitiva: indvirkende Gjerningsord*), sumar hvorkinlegar (*v. intransitiva; gjenstandslöse Gjerningsord*), sumar apturbeygjanlegar (*v. reflexiva; tilbagevirkende Gjerningsord*). og enn sumar persónulausar (*v. impersonalia: upersonlige Gjerningsord*).

Hvorkinlegar sagnir hafa eptir eðli sínu enga þolmynd, t. a. m. *löbe, komme, staae*, o. s. frv.

Á hinn bóginn eru ýmsar sagnir í dönsku. er enga áhrifsmynd hafa, heldur einungis þolmynd (*v. deponentia*), en beygjast reglulega, eins og hverjar aðrar sagnir; heyri sögnin til 1. fl. fyrri beygingarinnar, er ending sagnarbótarinnar *edes*, eða *ets*, en heyri hún 2. fl. til, er ending sagnarbótarinnar *tes*; t. a. m.:

*fattes, fattedes, har fattedes* (sjaldhaft), vanta;
*lykkes, lykkedes, har lykkedes* eða *lykkets*. heppnast;

*længes, længtes, har længtes*, lengjast;
*synes, syntes, har syntes*, sýnast.

Sumar þess konar sagnir hafa alls enga sagnarbót. t. a. m. *mindes, mindedes*, minnast; *ældes, ældedes*, eldast.

Apturbeygjanlegar sagnir hafa ávallt á eptir sjer þol. af persónulegu fornöfnunum, t. a. m. *Jeg bader mig*, jeg baða mig: *Du röber dig*, þú kemur upp um þig; *I röbe eder*, þjer komið upp um yður. o. s. frv. Ýmsar sagnir eru að eins hafðar apturbeygjanlegar. t. a. m. *Jeg understaaer mig*, jeg dirfist; *Jeg skynder mig*, jeg flýti mjer. Með sumum apturbeygjanlegum sögnum er höfð einhver fyrirsetning, til þess að tengja þær saman við það orðið, er táknar það, sem gjöra skal (*object*), t. a. m.:

*Jeg forstaaer mig paa*, jeg hef vit á, kann að.
*Jeg forbinder mig til*, jeg skuldbind mig til.
*Jeg bryder mig ikke om*, jeg hirði eigi um.

Til að tákna, að tveir hafi einhver áhrif hvor á annan, er haft *hinanden*, og til að tákna að fleiri eigist eitthvað við, er haft *hverandre*, t. a. m. *Vi to elske hinanden*, við unnumst; *Disse tre Brödre elske hverandre*. Þó eru þær áhrifssagnir til, að hafðar eru í þolmynd, til að tákna þessa hugmynd, t. a. m. *Vi sees hver Dag*, vjer (eða við) sjáumst daglega; *de sloges*, þeir börðust.

Í dönsku eru ýmsar persónulausar sagnir, eins og í íslenzku, og er haft *det* (það) með þeim, t. a. m. *Det regner*, *regnede*, *har regnet*, það rignir; *Det sneer*, *sneede*, *har sneet*, það snjóar; *Det lyner*, það eru eldingar; *Det tordner*, það þrumar; *Det töer*, það er þeyr. o. s. frv. Margar sagnir verða og hafðar persónulausar, þótt þær annars sjeu persónulegar, t. a. m. *Det fryser*, það frýs = er frost; *Det blæser*, það er vindur; *Det stormer*, það er hvasst; *Det mörkner*, og líka *mörknes*, það myrkvar, o. s. frv. Líka er 3. persóna eint. í þol-

mynd af sögnum, bæði áhrifssögnum og hvorkinlegum sögnum, höfð persónulaus, og er þá *der* sett fyrir framan, t. a. m. *Der siges*, það er mælt; *Der soves formeget*, það er sofið of mikið: *Der löbes idelig*, það er iðulega verið að hlaupa.

## V. Atviksorð (*adverbia; Biord*).

### 39. gr.

Atviksorð eru eptir eðli sínu óbeygjanleg, nema að því, að þau atviksorð, sem leidd eru af samsvarandi einkunnum, hafa miðstig og efsta stig, og það hið sama, sem einkunnin, ef einkunnin annars hefur nokkra stigbreytingu, t. a. m. *smukt, smukkere, smukkest; langsomt, langsommere, langsomst*, hægt, seint. Fyrir *höiest* er ávallt haft *höist*, er það er sett fyrir framan einkunnir, eða önnur atviksorð, t. a. m. *höist dannet*, frábærlega vel menntaður.

Óreglulega stigbreyting hafa:

| | | |
|---|---|---|
| *ilde*, | *værre*, | *værst*, illa; |
| *vel*, | *bedre*, | *bedst*, vel; |
| *tidt*, | *tiere*, | *tiest*, opt; |
| *længe*, | *længer*, | *længst*, lengi; |
| *meget*, | *meer*, | *mest*, mjög; |
| *gjerne*, | *heller*, | *helst*, gjarnan; |
| | *för*, | *först*, fyr. |

## VI. Fyrirsetningar (*præpositiones; Forholdsord*).

### 40. gr.

Fyrirsetningar eru í dönsku eins og öðrum tungum óbeygjanlegar, og setjast allar með þiggj. eða þol., en

engin með eiganda. þær eru annaðhvort ósamskeyttar eða samskeyttar; ósamsettar t. a. m.:

| | |
|---|---|
| *ad*, eptir; | *mellem*, milli; |
| *af*, af; | *mod*, móti; |
| *bag*, fyrir aptan; | *om*, um; |
| *blandt*, á meðal; | *over*, yfir; |
| *efter*, eptir; | *paa*, á; |
| *for*, á undan; | *samt*, ásamt með; |
| *fra*, frá; | *siden*, síðan; |
| *för*, á undan; | *til*, til; |
| *gjennem*, gegn um; | *trods*, þrátt fyrir; |
| *hos*, hjá; | *uagtet*, þrátt fyrir; |
| *i*, í; | *uden*, utan, án; |
| *inden*, innan; | *under*, undir; |
| *med*, með; | *ved*, við, fyrir. |

Samsettar eru t. a. m. *bagved*, *bagefter*, *foran*, *formedelst*, vegna, *iblandt*, *igjennem*, o. s. frv.

## VII. Samtengingarorð (*conjunctiones; Bindeord*) og meðalorpningar (*interjectiones; Udraabsord*).

### 41. gr.

Hvortveggja þessara orðflokka eru eptir eðli sínu með öllu óbeygjanlegir í dönsku, eins og í öðrum tungum, enda virðist það óþarft, að telja þau orð hjer upp.

# ÞRIÐJI KAFLI.

## Orðmyndunarfræði (*Etymologia; Orddannelseslære*).

### 42. gr.

Orð myndast á þrennan hátt í dönsku, þ. e. með smá-atkvæðum, sem sett eru framan við meginorðið, með afleiðsluendingum, eða með því, að skeyta orð saman. Atkvæði þau, sem sett eru framan við orð, eru annaðhvort neitandi eða játandi.

### 43. gr.

Hin helztu neitandi atkvæði, sem sett eru framan við önnur orð í dönsku, eru þau, sem nú skulu greind:

*u* (á íslenzku *ó*, fyrrum *ú*), t. a. m. *Udyd*, ódygð; *usigelig*, ósegjanlegur; *ugjerne*, ógjarna; *ugjort*, ógjörður, o. s. frv.

*van* (á íslenzku van), t. a. m. *Vanskabning*, óskapnaður; *vanvittig*, vitstola.

*mis* (á íslenzku mis), t. a. m. *Misundelse*, öfund; *misunde*, öfunda; *miskjende*, hafa ranga ímyndun um.

*for*, t. a. m. *Foragt*, fyrirlitning; *forgive*, drepa á eitri; *forskære*, sker til skemmda. Stundum er þó þetta atkvæði haft framan við orð einungis til þess að mynda með áhrifssagnir (*verba transitiva*), án þess að nokkur neitun felist í því, t. a. m. *forgylde*, gylla, *forandre*, breyta. Þetta *for* er eigi sama og fyrirsetningin *for*, sem líka er opt skeytt framan við orð, en það má þekkja þessi tvö orð hvort frá öðru á því, að áherzla orða þeirra, sem skeytt eru saman við þessi smá-

orð, liggur á fyrirsetningunni *for*, en eigi á hinu *for*, t. a. m. *Forklæde*, svunta, en *forklæde*, að færa í dularbúning. Þó er þessi regla eigi óbrigðul, t. a. m. *Fortrin*, yfirburðir, ágæti, en *fortrinlig*, ágætur.

*und*, t. a. m.: *Undtagelse*, undantekning; *undvære*, vera án; *undflye*, komast á burtu.

*veder*, t. a. m.: *vederstyggelig*, viðbjóðslegur; *Vederlag*, endurgjald.

## 44. gr.

Atkvæði þau, sem skeytt eru framan við orð, og játun er í fólgin, eru helzt þau, sem nú skulu greind:

*be*, t. a. m.: *Begreb*, ímyndun; *betænksom*, ískyggilegur; *beklage*, aumka.

*bi*, t. a. m.: *Bistand*, aðstoð; *Bihensigt*, aukatilgangur; *Bilöber*, hestur sem hleypur með; *bidrage*, stuðla að.

*sam* (á íslenzku sam), t. a. m.: *Samtykke*, samþykki; *samtidig*, samtíða; *samtykke*, samþykkja.

*er*, t. a. m.: *Erindring*, minni; *erholde*, fá.

*an*, t. a. m.: *Ansigt*, andlit; *Angreb*, árás; *angribe*, ráðast á.

Opt er *i* sett framan við þau fornöfn og atviksorð, er hefjast á *hv*, og fá þau við það enn almennari merkingu, t. a. m. *ihvem*, hver sem helzt; *ihvad*, hvað sem helzt; *ihvor*, hvar sem helzt.

## Afleiðsluendingar.

### 45. gr. Afleiðsluendingar nafna.

Afleiðsluendingar nafna má greina í fjóra flokka, eptir því, hvað nafnið táknar.

1. þær endingar, er tákna einhvern þann, er gjörir eða fremur eitthvað, eða er það eða það:

*er* og *ner*, t. a. m.: *Dommer*, dómari; *Læser*, lesandi; *Kunstner*, íþróttamaður; *Falskner*, sá sem falsar.

*mager*, til að tákna iðnaðarmenn, t. a. m.: *Skomager*, skóari; *Uhrmager*, úrsmiður.

*ling*, t. a. m.: *Lærling*, lærisveinn; *Yngling*, unglingur; *Gæsling*, gagl, gæsarungi; *Ælling*, andarungi; *Kylling*, kjúklingur.

Til þess að tákna kvenmann, sem gjörir eitthvað, eða er það eða það, eru hafðar afleiðsluendingarnar *inde* og *erske*, t. a. m.: *Hertuginde*, hertoga kona; *Veninde*, vinkona; *Sangerinde* og *Sangerske*, söngkona; *Væverske*, sú sem vefur; *Giftblanderske*, sú sem byrlar eitur.

2. Þá eru þær afleiðsluendingar, er tákna verknað:

*en*, t. a. m.: *Prædiken*, prjedikun; *Tænken*, hugsun (= það að hugsa).

*ende*, t. a. m.: *Foretagende*, fyrirtœki; *Vidende*, vitund; *Sigende*, sögn.

*ing*, *ning*, t. a. m.: *Handling*, verk; *Forandring*, breyting; *Gjerning*, verk.

*else*, t. a. m.: *Styrelse*, stjórn; *Beskrivelse*, lýsing; *Fornöielse*, skemmtun.

*sel*, t. a. m.: *Födsel*, fœðing; *Kjörsel*, það að aka.

*t*, *d*, t. a. m.: *Drift*, hvöt; *Dragt*, klæðnaður; *Blæst*, gustur; *Skyld*, skuld; *Byrd*, burðir.

*st*, *ste*, t. a. m.: *Kunst*, íþrótt; *Yndest*, kærleikar, vinfengi; *Ankomst*, koma; *Tjeneste*, þjónusta, greiði.

*eri*, t. a. m.: *Fiskeri*, fiskiveiðar; *Praleri*, gort; *Tyveri*, þjófnaður.

Sumar af þessum endingum eru og hafðar til þess að tákna með menn og hluti, t. a. m.: *Arving*, erfingi; *Hövding*, höfðingi; *Slægtning*, ættingi; *Flygtning*, flótta-

maður; *Dronning,* drottning; *Munding,* mynni; *Skrivelse,* brjef; *Værelse,* herbergi; *Fængsel,* dýflissa.

3. þá eru enn þær endingar, er tákna eiginlegleika og því um líkt, t. a. m.:

*e, de,* t. a. m.: *Hede,* hiti; *Vrede,* reiði; *Styrke,* styrkleikur; *Dybde,* dýpt; *Længde,* lengd; *Mængde,* fjöldi; *Tyngde,* þyngd.

*hed,* t. a. m.: *Kjærlighed,* elska; *Godhed,* gæzka; *Retfærdighed,* rjettlæti; *Skævhed,* skekkja.

*dom,* t. a. m.: *Viisdom,* vizka; *Alderdom,* elli; *Ungdom,* æska*).

*skab,* t. a. m.: *Venskab,* vinátta; *Fjendskab,* fjandskapur; *Svogerskab,* mægðir.

*me,* t. a. m.: *Fedme,* fita; *Södme,* sætleikur; *Rödme,* roði.

4. Hvorugkynið af einkunnum verður einatt að nöfnum, er tákna hluti, ýmist með þeirri endingunni, er einkunnin hefur, þegar ákveðni greinirinn fer á undan (*e*), ýmist með hinni vanalegu hvorugkyns-endingu (*t*), t. a. m.: *et Onde,* böl; *et Hele,* heild; *Grönt,* kál; *Spanskgrönt,* spanskgræna.

Ýmsar eru fleiri afleiðsluendingar í dönsku, en sem hver fyrir sig eigi eru hafðar nema í fáeinum orðum, t. a. m.: *el* eða *l,* t. a. m.: í *Nögel,* lykill, *Skovl,* reka; *ed* í *Maaned,* mánuður; *et* í *Levnet,* líferni; *n* í *Havn,* höfn; *ke* í *Törke,* þurrkur; *ske* í *Vædske,* vökvi; *te* í *Löfte,* loforð; *lig* í *Veirlig,* veðurlag; *ster* í *Blomster,* blóm, o. s. frv.

---

*) Af *dom* er aptur leitt *dömme,* til að tákna með hjerað eða land, sem einhver á yfir að ráða, t. a. m.: *Hertugdömme,* hertogadæmi, *Bispedömme,* biskupsdæmi; *Kongedömme,* konungsríki.

### 46. gr. Afleiðsluendingar einkunna.

Hinar helztu afleiðsluendingar einkunna eru þær, sem nú skulu greindar:

*ig* (sem bœtt er við nöfn og sagnir), t. a. m.: *modig*, hugrakkur; *lydig*, hlýðinn; *sövnig*, syfjaður, o. s. frv.

*lig*, (sem bœtt er við nöfn og sagnir), t. a. m.: *daglig*, daglegur; *aarlig*, árlegur; *venlig*, vinalegur. Stundum er þessari endingu bœtt við einkunnir, og dregur hún þá úr, t. a. m.: *rödlig*, rauðleitur; *grönlig*, grœnleitur; *syrlig*, sýrukenndur. Stundum er *t* skotið inn fyrir framan þessa endingu, millum hennar og meginhlutans, t. a. m.: *mundtlig*, munnlegur; *offentlig*, opinber. Stundum verður þessi ending *elig*, og táknar sú ending optast, að það eða það sje auðið að gjöra, t. a. m.: *tænkelig*, hugsanlegur; *dödelig*, dauðlegur, banvænn.

*agtig* (sem bœtt er við nöfn, einkunnir og sagnir), t. a. m.: *nöiagtig*, nákvæmur; *langagtig*, ílangur; *blaaagtig*, bláleitur.

*som* (sem einnig er bœtt við nöfn, einkunnir og sagnir), t. a. m.: *voldsom*, ójafnaðarfullur; *langsom*, seinn; *arbeidsom*, iðjusamur. Af þessum einkunnum eru aptur myndaðar nýjar einkunnir, með því móti, að við er bœtt *melig*, t. a. m.: *fredsommelig*, friðsamur; *frugtsommelig*, þungaður.

*bar* (sem bœtt er við nöfn og sagnir), t. a. m.: *frugtbar*, frjór; *seilbar*, skipgengur; *ufeilbar*, óbrigðull. Af þess kyns einkunnum eru þá aptur leiddar nýjar einkunnir með því móti, að við er bœtt *lig*, t. a. m.: *skinbarlig*, bersýnilegur.

*sk*, sjaldnar *isk* (sem bœtt er við nöfn og sagnir), t. a. m.: *spodsk*, háðgjarn; *digterisk*, skáldskapar —;

*löbsk*, fœlinn; *lumsk*, lymskur. Margar þær einkunnir, sem leiddar eru af landanöfnum eða þjóðanöfnum, fá þessa afleiðsluendingu, t. a. m.: *tydsk*, þýzkur; *polsk*, pólskur; *hollandsk*, hollenzkur; *tyrkisk*, tyrkneskur; *russisk*, rússneskur, o s. frv.

Athugas. Einkunnir þær, er leiddar eru af nöfnum landa og þjóða, eru og hafðar í stað nafna, til að tákna með tungu hverrar þjóðar fyrir sig, og eru þá ritaðar með stórum upphafsstöfum, t. a. m.: *Taler han Dansk?* getur hann talað dönsku?

*et* (sem bœtt er við nöfn), t. a. m.: *hornet*, hyrndur; *trekantet*, þrístrendur; *blaaöiet*, bláeygur; *hullet*, götóttur, o. s. frv.

*laden* (sem bœtt er við einkunnir, og dregur úr), t. a. m.: *grönladen*, ígrœnn; *mörkladen*, dökkleitur; *vredladen*, reiðilegur, o. s. frv.

*vorren*, t. a. m.: *tossevorren* og *fjantevorren*, heimskur; *knarvorren*, önuglyndur.

Auk þess eru ýmsar fleiri endingar, sem hver fyrir sig er höfð að eins við einstök orð, *el*, *en*, *ern*, *haftig*, *s* og *fl.*, t. a. m.: *vammel*, væminn; *gylden*, úr gulli; *sölvern*, úr silfri; *standhaftig*, staðfastur; *fælles*, *stakkels*, o. s. frv.

## 47. gr. Afleiðsluendingar sagna.

Hinar helztu endingar, sem hafðar eru til þess, að mynda með sagnir af öðrum orðum, eru þær, sem nú skulu greindar:

*e* er opt bœtt eintómu við nöfn og einkunnir, og sögnin mynduð með því mótinu, t. a. m.: *agte*, ætla; *synde*, syndga; *varme*, verma. Stundum breytist þó jafnframt hljóðstafur meginhlutans, t. a. m.: *yde* af *ud*, veita; *glæde* af *glad*, gleðja; *böde* af *Bod*, bœta.

Af hvorkinlegum sögnum eptir annari beygingunni eru opt myndaðar áhrifssagnir, með því að breyta hljóðstaf meginhlutans, og stundum er þá breytt mjúkum samhljóðanda í enda meginhlutans í harðan; ganga þær áhrifssagnir, er þannig eru myndaðar, eptir fyrri beygingunni, þannig t. a. m.:

| áhrifssagnir: | hvorkinl. sagnir: |
| --- | --- |
| *sprænge*, sprengja, | af *springe*, *sprang*; |
| *sætte*, | af *sidde*, *sad*; |
| *sænke*, sökkva e-u, | af *synke*, *sank*; |
| *lægge*, | af *ligge*, *laa*; |
| *före*, fœra, | af *fare*, *foer*; |
| *röge*, | af *ryge*, *rög*, o. s. frv. |

Áhrifssagnirnar eru, eins og sjá má af þessum dœmum, er nú voru tínd, flestar myndaðar af þálegri tíð hinna hvorkinlegu sagna; þó eru sumar leiddar af núlegri tíð, t. a. m.: *vække*, vekja, af *vaage*, vaka.

Hvað optast eru þó áhrifssagnir myndaðar með því mótinu, að *be*, *er* eða *for*, er skeytt framan við, t. a. m.: *befare*, fara um; *besidde*, eiga; *begaae*, drýgja; *erfare*, komast að; *forstaae*, skilja.

*te*, t. a. m.: *svigte*, bregðast, af *svige*; *sigte*, miða, af *see*; *gotte*, gleðja, af *god*.

*ne*, t. a. m.: *ligne*, líkjast, af *lig*, *blegne*, blikna, af *bleg*; *guulne*, gulna, af *guul*.

*ke*, *ge* og stundum *ige*, t. a. m.: *dyrke*, dýrka, af *dyr*; *forsinke*, seinka fyrir, af *seen*; *hærge*, herja, af *Hær*; *bemægtige sig*, ná, af *Magt*; *værdige*, virða, af *Værd*.

*se*, t. a. m.: *rense*, hreinsa; *hidse*, espa, af *hed*.

*ske*, t. a. m.: *herske*, drottna; *formindske*, minnka, af *mindre*.

*re*, t. a. m.: *bævre*, titra; *kvidre*, kvaka, af *kvæde*.

*le*, t. a. m.: *smugle*, flytja varning á laun, af *Smug; funkle*, glóa, af *Funke*.

Allar þær sagnir, sem hafa einhverja þessara afleiðslu-endinga, *te*, *ne*, *ke*, *ge*, *ige*, *se*, *ske*, *re*, *le*, beygjast reglulega eptir 1. flokki fyrri beygingarinnar.

Auk þessara afleiðslu-endinga, er þegar voru taldar, er enn í dönsku afleiðslu-endingin *ere* og er hún opt höfð til að mynda sagnir af útlendum orðum, t. a. m.: *reformere*, endurbœta; *diktere*, lesa fyrir. Í raun rjettri beygjast þær eptir fyrsta flokki fyrri beygingarinnar, en eru þó á stundum beygðar eptir öðrum flokknum, t. a. m.: *reformere, reformerede* og *reformerte, reformeret* og *reformert*.

## 48. gr. Afleiðsla atviksorða.

þessar eru hinar helztu afleiðslu-endingar atviksorða:

*e*, og tákna ýms þau orð, er mynduð eru með þeirri afleiðslu, veru á staðnum, og eru leidd af öðrum atviksorðum, sem eru endingarlaus, en þau tákna hreifinguna til staðarins, t. a. m.: *oppe*, uppi, af *op; ude*, úti, af *ud*; *hjemme*, heima, af *hjem; borte*, burtu. Enn fremur, t. a. m.: *stille*, hœgt; *neppe*, varla, o. s. frv.

*er*, og táknar sú ending opt ýmist veruna á staðnum, eða hreifinguna til staðarins; t. a. m.: *öster paa*, austur; *vester paa*, vestur; *atter*, aptur; *efter*, eptir; *under*, undir; *over*, yfir.

*en*, upphaflega sama sem an á íslenzku, og hefur því táknað hreifinguna frá einhverjum stað, en nú er sú merking því nær með öllu horfin; þannig t. a. m.: *östen for*, fyrir austan; *oven for*, fyrir ofan; *oven paa*, ofan á; *inden* (*een Time*), innan (einnar stundar); *næsten*, næstum; *sjelden*, sjaldan.

*igen*, *ligen*, af einkunnunum upp á *ig* og *lig*, t. a. m.:

*modigen*, hugrekkislega; *kraftigen*, kröptuglega. En þessar endingar eru nú nær því ávallt styttar í *ig* og *lig*, svo að atviksorðin hafa að öllu sömu mynd og einkunnirnar, sem þau leiðast af; t. a. m.: *kraftig*, fyrir *kraftigen*; *fölelig* f. *föleligen*. Í stað þess kyns atviksorða er opt haft hvorugkynið af einkunnunum, t. a. m.: *kraftigt* (*han blev kraftigt understöttet*); en Rask heitinn kveður það rangt, enda þótt að hvorugkyn ýmissa annara einkunna sje haft í stað atviksorða, t. a. m.: *godt*, vel; *sværge höit* og *dyrt* (sverja og sárt viðleggja); en samkyn einkunna er opt haft í stað atviksorða, t. a. m.: *knap nok* (naumast nóg); *fuldkommen fornöiet* (með öllu ánægður).

*lig*, *elig*, t. a. m.: *navnlig*, einkum; *lydelig*, hátt; *visselig*, sannlega; *fuldelig*, fyllilega, o. s. frv.

*s*, *es*, og eru þess konar atviksorð upphaflega eigendur nafna t. a. m.: *etsteds*, einhverstaðar; *allesteds*, alstaðar; *alskens*, alls konar; *skraas*, á ská; *paa tværs*, þvers um; *udvortes*, utan; *indvortes*, innan.

## 49. gr. Samskeyting orða.

Samskeyting orða í dönsku er mjög óbundin, og það svo, að eigi verða settar reglur fyrir, þær er taki fyrir allar æsar, enda er þess eigi þörf; þó skal geta hins helzta, er athugavert er.

Sem optast er síðari hluti samskeytingsins aðalorðið, og er þá nákvæmar ákveðið með fyrri hlutanum, t. a. m.: *en Skolebog*, skólabók; *en Læsebog*, kennslubók; *en Ordbog*, orðabók; *en Ölflaske*, ölflaska (flaska sem öl er í, eða sem öl hefur verið í); *en Sölvske*, silfurskeið; *en Træsko*, trjeskór. Sama er að segja um einkunnir, t. a. m.: *langvarig*, langvinnur; *landsforvist*, útlægur. Eins eru

nokkrar sagnir, t. a. m.: *halshugge*, hálshöggva; *löslade*, láta einhvern lausan.

Stundum er síðari hluti hinna samskeyttu orða leiddur af sjerstöku orði, en sem þó er aldrei hafður sjerstakur, eða á annan veg en samskeyttur, t. a. m.: *Husholder*, búmaður; *Husholderske*, ráðskona; *husholderisk*, sparsamur, af *holde*, en þó eru *Holder*, *Holderske*, *holdersk*, eigi til sjerstök.

Fyrri hluti samskeytinga er opt nafnháttur sagnar óbreyttur að öllu t. a. m.: *Byggeplads*, hússtæði; *Hvæssesteen*, brýni; *Bærebör*, börur; *Trykkefrihed*, prentfrelsi.

Þegar nöfn eru skeytt framan við önnur orð, þá er það opt, að meginhluti þeirra er hafður óbreyttur, eða nafnið, eins og það er í gjöranda eintölu, t. a. m.: *Raadstue*, þinghús; *Kongestad*, konungsbær. Eins er og opt meginhluti einkunna skeyttur framan við önnur orð óbreyttur og endingarlaus, t. a. m.: *Alverden*, alheimur; *Blaabær*, bláber; *Lediggang*, iðjuleysi, o. s. frv.

Stundum breytist fyrri hluti samskeytingsins við samskeytinguna, þannig að *e* er sleppt aptan af, t. a. m.: *en Firskilling*, fírskildingur; *et Kvindfolk*, kvennmaður. Stundum er *e* skotið inn, og mun það sem optast vera leifar af endingu eiganda fleirt. í íslenzkunni, t. a. m.: *en Æggeblomme*, eggjarauði; *en Sædelære*, siðalærdómur; *Landemærke*, landamæri. Stundum virðist þetta *e* vera leifar endingar eiganda í eint. (*a*, *ar*, *ur*), t. a. m.: *en Pennekniv*, pennahnífur; *en Sængestolpe*, sængurstólpi. Enn þá optar er þó bætt við *s* við fyrri hlutann, eða fyrri hlutinn er eigandi nafns í eintölu, t. a. m.: *en Handelsmand*, kaupmaður; *en Landsmand*, landi, samlandi; en *en Landmand*, bóndi, jarðyrkjumaður; *en Vinduesrude*, gluggarúða; *et Tidsrum*, tímabil. Nokkur eru og þess dæmi, að *n* er bætt inn í, og eru þess konar orð komin úr þýzku, enda hafa þar samkynja mynd t. a. m.:

*Fruentimmer*, kvennmaður; *Grækenland*, Grikkland, á þýzku: *Frauenzimmer, Griechenland.*

Fáein samskeytt orð eru þau, er báðir hlutar þeirra fá fleirtölumynd, þegar þau eru höfð í fleirtölu, t. a. m.: *Bondegaard*, bóndabœr, *Böndergaarde*, bóndabœir; *Barnebarn*, barnsbarn, *Börnebörn*, barnabörn.

Einatt eru fyrirsetningar og atviksorð höfð sem fyrri hluti samskeytts orðs, t. a. m.: *afhugge*, höggva af, *fratage*, taka frá; *Udtale*, framburður, *udtale*, bera fram; *nedrive*, rífa niður; *opbrænde*, brenna. En greina má og hluta slíkra orða í sundur, og setja hvorn hlutann sjer, t. a. m.: *tage fra; hugge af*, og verður opt ólík merking slíkra orða eptir því, hvort þau eru greind í tvennt eða eigi; og er þá óeiginleg merking hins samskeytta orðsins, en merkingin eiginleg, ef hlutar þess eru greindir hvor frá öðrum, t. a. m.: *afstaae*, hætta, en *staae af*, fara af hestbaki; *oversætte*, snúa á aðra tungu, en *sætte over*, fara yfir á, eða því um líkt; *overgaae*, taka einhverjum fram, en *gaae over*, fara yfir; *udtrykke*, komast að orði, en *trykke ud*, kreista út, o. s. frv.

Fyrirsetningin *i* er opt sett framan við aðrar fyrirsetningar og atviksorð; en þetta *i* hverfur aptur, ef þess konar orð eru skeytt framan við önnur orð; t. a. m.: *igjennem*, en *gjennembore*, reka í gegn; *imod*, móti, en *Modstand*, viðurnám; *imellem*, milli, en *Mellemgulv*, þynd; *igjen*, aptur, en *gjentage*, ítreka, o. s. frv.

---

# FJÓRÐI KAFLI.

---

## Setningafræðin *(Syntax; Ordföiningslære).*

### 50. gr. Orðaskipunin.

Orðaskipunin í dönsku er mjög óbrotin. Í beinum setningum skal fyrst setja gjörandann *(subjectum; Grundord)* með þeim orðum, sem honum heyrir, því næst sögnina og einkunnina, sem með henni fylgir *(prædicatum; Omsagn)*, ef hún annars er. Sje höfð samsett tíð sagnar, er hjálparsögnin sett fyr, en sagnarbótin síðar. Á eptir sögninni skal setja það orð, sem sögnin stýrir *(objectum; Gjenstand)*, en sjeu þau orð tvö, skal það orðið fyr setja, er táknar persónu, en hitt síðar, er táknar hlutinn, eða með öðrum orðum: þiggjandann skal setja fyr en þolandann. Síðast skal fyrirsetningin standa með því orði, sem hún stýrir; t. a. m.: *„Min Fader har lovet mig en Bog til Foræring.“*

Í hinum liðnu tímum þolsagnar er því orði, sem táknar persónuna, og í þiggjanda stendur, opt hleypt inn á milli hjálparsagnarinnar og sagnarbótarinnar, t. a. m.: *„Brevet blev mig sendt.“*

Gjörandinn í greininni er þó settur á eptir sögninni optast þá, þegar Íslendingar mundu svo rita; það er:

1. Í spyrjandi setningum, t. a. m.: *„Er din Fader hjemme“?*
2. Í óskarsetningum, þegar höfð er þáleg tíð; t. a. m.: *„Havde du blot gjort det“.*
3. Í skildagasetningum, þegar skildagaorðinu er sleppt; t. a. m.: *„Gjör du det, er jeg tilfreds“.*
4. Alstaðar í síðari hluta setningar; t. a. m.: *„Derfor har jeg gjort det“.*

Einhver hinn merkasti munur á orðaskipun í dönsku

og íslenzku er sá, að í dönsku er eigandi ávallt settur á undan því nafninu, sem stýrir honum, og sömuleiðis eignarfornöfnin á undan þeim nöfnum, sem þau ákveða; t. a. m.: *„Min Broders förste Kone havde ikke givet sine Börn den rette Opdragelse i deres Ungdom“.*

## 51. gr. Um greininn.

Hinn óákveðni greinir, *en*, *et*, er þá hafður í dönsku, þegar talað er um einhvern einstakan, en þó ótiltekinn hlut, eða þar sem Íslendingar hafa ekkert ákvörðunarorð, eða þá eitthvert óákveðið fornafn, t. a. m. einn, einhver eða nokkur. Hann er ávallt settur á undan nafninu, og sömuleiðis á undan einkunninni, nema því að eins að *for*, *hvor*, eða *saa* fari á undan; því að þá er greinirinn settur á milli einkunnarinnar og nafnsins. t. a. m.: *Det er for vanskelig en Sag; Hvor vanskelig en Sag det er; Saa smukt et Huus.* Sömuleiðis er hinn óákveðni greinir opt settur á eptir *slig*, *saadan*, *hvordan*, ávallt á eptir *mangen*; t. a. m.: *Slig en Mand*, eða *en slig Mand; Saadan en Opförsel*, eða *en saadan Opförsel; mangen en Skilling.*

Óákveðni greinirinn er þá hafður með eiginlegum nöfnum *(nomina propria)*, þegar hið eiginlega nafn er haft óeiginlega, þar sem Íslendingar mundu segja annar (önnur, annað) eins og, t. a. m.: *Der behöves en Cicero til at berömme store Mænd* (= það þarf annan eins mælskumann og Cicero, til að víðfrægja mikla menn); *Rom var et Sodoma; „Det er ret en Lucretia“*, eða *„Det er den rette Lucretia“.*

Stundum er og óákveðni greinirinn hafður með nafni til áherðingar, t. a. m.: *„Det er en Glæde“* (f. *Det er en stor Glæde*), *„at see den gamle Mand“!*

Hinn óákveðni greinir verður eptir eðli sínu ekki hafður á undan þeim orðum, er tákna safn af einhverju (*n. collectiva; Samlingsord*), þar eð þau eigi tákna einn einstakan hlut. Stundum er hann hafður með orðum í fleirtölu, ef töluorð fer á undan, og merkir þá sama og eitthvað, hjerum bil; t. a. m.: *Han bliver her en tre Uger.*

Hinn ákveðna greini má setja hvort sem vill á undan *heel* (heill, allur), eða þá hnýta honum aptan við nafnið, og stundum má og setja hann á millum *heel* og nafnsins, t. a. m.: „*Hele Brödet*, eða *Det hele Bröd; hele den udslagne Dag.* Ef *al* eða *begge* er haft með nafni, verður ávallt að setja greininn annaðhvort á milli þeirra og nafnsins, eða hnýta honum aptan við nafnið, t. a. m.: *Alle de mange Penge; Alle Pengene; Begge de forreste Födder; Begge Brödrene.* Þessu skylt er það, er sagt er: „*For störste Delen*". í staðinn fyrir: „*For den störste Deel*": „*Anden Dagen efter*". í staðinn fyrir: „*Den anden Dag*".

Í því er danskan lík íslenzku, að þegar eitthvert nafn stýrir öðru orði í eiganda, þá er greininum hnýtt við eigandann, en eigi við hitt nafnið, t. a. m.: *Træets Höide; Verdens Alder.*

## 52. gr. Um nöfn.

Í stað eiganda er opt höfð fyrirsetning með því nafni, sem í eiganda ætti að setja, t. a. m.: *Danmarks Konge*, eða optar *Kongen af Danmark; Biskoppens Broder*, eða *Broder til Biskoppen*; *Mange overflödige Midlers Anvendelse*, eða *Anvendelsen af mange overflödige Midler.* Skuli tákna eiganda að einhverju, verður að setja það nafn í eiganda, en eigi með fyrirsetningu, t. a. m.: *Mandens Huus.*

það yrði oflangt mál, að rita hjer reglur fyrir því, hver fyrirsetning skuli höfð í hverju einu sambandi, og verður vaninn og tíminn að kenna mönnum það; hjer skal að eins sýna fáein dœmi þessa setningarlags:

*Eier, Behersker, Styrer af*;
*Sön af*; *Fader, Moder til;*
*Arving, Forfatter, Præst til;*
*Herre, Befalingsmand, Amtmand over;*
*Formand, Værge for;*
*Hensigt, Öiemed af* eða *med;*
*Aarsag, Grund til;*
*Beviis paa;*
*Haab, Önske, Tvivl om;*
*Tanke om* eða *over;*
*Gjenstand, Maal for;*
*Kjærlighed, Lyst, Had til*;
*Længsel, Begjerlighed efter;*
*Afsky, Frygt for*;
*Glæde, Sorg, Fortrydelse over;*
*Mangel, Overflödighed af* eða *paa;*
*Bön, Begjering om;*
*Bön, Tillid, Mistanke til*, o. s. frv.

Eptir þau nöfn, er tákna fjölda, lengd eða þyngd einhvers, eða svo og svo mikið af einhverju, og því um líkt, er nafn þess, sem talið er, o. s. frv., hvorki sett í eiganda nje heldur fyrirsetning höfð, heldur er nafnið sett í gjöranda, t. a. m.: *En Mængde Mennesker; En Snees Æg; Fire Pund Bröd*; *To Tönder Meel; Et Stykke Kjöd; Et lille Stykke Vei.* Sje aptur á móti hluturinn, sem talinn er eða mældur, nákvæmar tiltekinn, hver hann skuli vera, eða ákveðni greinirinn hafður með nafni hans, þá verður að bœta við fyrirsetningunni; þannig t. a. m.: *En Tönde godt Meel; En Tönde af det gode Meel.*

Hvorki einkunn, sögn sje fyrirsetning stýrir eiganda í dönsku, nema hvað fyrirsetningar setjast með eiganda í einstökum orðatiltækjum (sjá 57. gr.), og verður því að setja öll þau nöfn, sem einkunnir, sagnir eða fyrirsetning stýra, annaðhvort í þolanda, eða hafa fyrirsetning með; t. a. m.: *Han varetager sit Embede; Det er ikke to Rigsdaler værd; Vi gik til ham; Af guddommelig Natur*, o. s. frv.

Persónufallið eða þiggjandann má og setja á eptir hlutar-heitinu, en þá verður að hafa fyrirsetningu með, t. a. m.: *„Jeg har solgt Manden Bogen“*, eða *„Jeg har solgt Bogen til Manden“*; *„Det er Mennesket gavnligt“*, eða *„Det er gavnligt for Mennesket“*.

Þegar eiganda nafns skal hafa og önnur orð eru höfð með því, til að ákveða það eða skýra, hvort heldur þau eru samtengd aðalorðinu með fyrirsetningu, eða þau standa á eptir því samtengingarlaus, en tákna þó hinn sama mann eða hlut og undanfarandi orð (*appositio*), þá er eiganda-endingunni *s* ávallt hnýtt aptan við hið síðasta þessara orða, en sleppt við aðalorðið; t. a. m.: *Keiseren af Österrigs Lande* (lönd Austurríkiskeisara); *Kongen af Danmark, Frederik den Syvendes Regjering; Den forrige Keiser af Frankrig, Napoleon Buonapartes Grav er paa St. Helena; Han er af den berömte Historieskriver, Arild Hvitfelds Familie.*

## 53. gr. Um einkunnir.

Einkunnir skulu, eins og í íslenzku, ávallt vera í sama kyni og tölu, eins og nöfn þau, er þær heyra, t. a. m.: *Manden er gammel; Huset er gammelt; Mændene, Husene ere gamle.*

Í óbundinni ræðu verður og einkunnin ávallt að standa á undan nafninu, en aldrei fyrir aptan það, nema

1) einkunnin sje umsagnarorð (*prædicatum*). t. a. m.: *Byen er stor; Marken er skjön;* 2) ef einkunnin er viðurnefni manna, t. a. m.: *Gorm den Gamle; Knud den Store;* 3) opt þar sem í íslenzku er höfð tilvísunarsetning, en eigi í dönsku, en má þó, t. a. m.: *Mange Begivenheder, værdige at optegnes* (= *som ere værdige at optegnes*).

Ýmsar einkunnir eru settar á eptir nafnið, þegar það er í þiggjanda, t. a. m.: *Det skede mig ubevidst; At være nogen behjælpelig.* Ýmsar einkunnir verða settar með þiggj., ýmist án fyrirsetningar, eða með fyrirsetningu, en sje fyrirsetning höfð, verður að setja þiggj. á eptir einkunninni, t. a. m.: *Det er ham nyttigt, skadeligt, farligt, kjært,* eða *Det er nyttigt, skadeligt, farligt, kjært for ham. Barnet er sin Fader lydigt,* eða *Barnet er lydigt imod sin Fader. Han er mig nærbeslægtet,* eða *Han er nærbeslægtet med mig.* Sb. 52. gr.

Meiri hluti einkunna er það, er fyrirsetningu verður að hafa með, enda er og fyrirsetning optast þá höfð einnig í íslenzku, t. a. m.:

*fuld, mæt, kjed, træt af;*
*tom, fattig, rig paa;*
*tilböielig, duelig, værdig til;*
*glad, bedrövet over;*
*deelagtig, skyldig i;*
*mistænkt for;*
*sikker paa,* o. s. frv.

Til að tákna mál og þunga og því um líkt, er engin fyrirsetning höfð með einkunnum, og nafnið þó sett í gjöranda, þar sem Íslendingar hafa eiganda, t. a. m.: *Tre Alen lang; Fire Pund tung; Tre Aar gammel.*

Þegar einhverju tvennu er líkt saman, og því haft miðstig einkunnar, þá eru samlíkingarliðirnir ávallt tengdir

saman með *end* (en), þar sem Íslendingar ýmist hafa en, eða setja síðari samtengingarliðinn í þiggjanda, t. a. m.: *Han er större end jeg*; *Jeg har anseet ham rigere end min Broder*. Stundum er miðstig einkunna haft í stað frumstigs, t. a. m.: *Jeg har seet flere* (= ýms) *Skibe seile forbi.*

Sje haft efsta stig einkunnar til að tákna samanburð á einhverju, þá er ávallt í dönsku höfð fyrirsetningin *af* með nafni hins síðari samlíkingarliðs, þar sem Íslendingar hafa ýmist af með þiggj. fleirt., eða þá eintóman eiganda fleirtölu, t. a. m.: *Mennesket er den ædleste af alle Guds Skabninger paa Jorden*; *Han er den mest dannede af Brödrene.* Þegar Íslendingar bera eitthvað tvennt saman, og því hafa miðstig einkunnar, en hafa eigi en á eptir, og sameina báða liðina í eitt, eða sleppa síðari samlíkingarliðnum, eins og t. a. m. í spurningum, og opt í svörum, þá hafa Danir efsta stig einkunnarinnar, t. a. m.: *Hvem er den ældste af de to Brödre? Peter er den ældste,* en ekki: *Hvem af de to Brödre er ældre; Peter er ældre.*

## 54. gr. Um töluorðin.

Enda þótt hvert nafn eigi að vera í fleirtölu með öllum frumtölum. nema *een*, þá ber þó út af því á stundum, svo að Danir segja t. a. m.: „*Han havde femten tusinde Mand*“ (ekki *Mænd*); sbr. á íslenzku, t. a. m. hundrað manns. Að öðru hefur verið skýrt frá töluorðunum hjer á undan, svo sem þörf er á í þessari bók.

Standi töluorð og einkunn með nafni, verður það þeirra orða næst nafninu, er því er nánast sameinað í hugsuninni, t. a. m.: *ti hele Bröd* (= tíu brauð, sem ekkert er af tekið), en *hele ti Bröd* (ekki minna en 10 brauð).

## 55. gr. Um fornöfnin.

*Han* og *hun* er í dönsku að eins haft um skynsamar verur; en um dýr og hluti er haft *den* og *det*, eptir því hvers kyns nafnið er, sem fornafnið er sett í staðinn fyrir; þannig t. a. m.: *Gud har skabt Verden; han vaager ogsaa over dens Vedligeholdelse. Faderen hjalp de Fattige, thi han var et ædelttænkende Menneske. Moderen vaager hver Nat; men det er næsten utroligt, at hun kan holde det ud. Fuglen elsker sine Unger saa höit, at den endog vover sit Liv for dem. Haabet er vor Livs Tröst: det formilder alle dets Gjenvordigheder.*

Þegar eitthvert hvorugkynsnafn er haft, sem táknar menn, þá er þó opt haft í stað þess eigi *det*, heldur *han* eða *hun*, eptir því hvort verið er að tala um karlmann eða kvennmann, t. a. m.: *Fruentimmeret viste Heltemod, da hun* (en eigi *det*) *forsvarede sig.* Eins: *Mennesket slog sig, da han faldt.* En þó er rjettara að hafa *det* heldur en *han*, ef talað er um mennina alla saman, eða mannkynið allt, t. a. m.: *Mennesket og dets Medskabninger. Mennesket erkjendte ikke, at det havde syndet mod Gud.*

Í staðinn fyrir eintölu fyrstu persónunnar *jeg*, o. s. frv., hafa konungar fleirtölu, *Vi*, t. a. m.: *Vi Frederik den Sjette*, o. s. frv.

Þegar Danir þjera einhvern, hafa þeir til þess fleirtölu þriðju persónunnar, og rita það orð stórum upphafsstöfum, t. a. m.: *Kommer De imorgen?*

Danir hafa og *det er* í staðinn fyrir *han* og *hun*, þegar umsagnarorðið er nafn, eins og Íslendingar hafa það er, t. a. m.: *Det er en god Mand*; *Det er en Tyv.*

Með hinu persónulausa orðatiltæki *det er* eða *det bliver* er eigi haft gjörandi hinna persónulegu fornafna, heldur þolandi, þegar þau eru umsagnarorð; þannig t. a. m.: „*Det er mig* (ekki *jeg*); *det er ham*; *det bliver nok hende*“.

Þegar Íslendingar hafa þiggj. af fornafni með einhverri fyrirsetningu, og nafn fer á eptir, þá hafa Danir í stað þiggjandans og fyrirsetningarinnar tilsvarandi eignarfornöfn t. a. m.: *Jeg har brækket min Arm* (Jeg hef brotið á mjer handlegginn); *Han forstrakte sin Arm.*

*Sig* verður því að eins haft, að það bendi til undirstöðuorðsins (*subjectum*) í hinni sömu setningu og það stendur, en annars eigi, því að þá verður að hafa *han*, *hende*, *den*, *det*, eptir því sem ástendur í hvert skipti, t. a. m.: *Han begav sig ombord;* en sje undirstöðuorðið í fleirtölu, þá hafa ýmsir sett þá reglu, að eigi skuli hafa *sig*, þar sem Íslendingar þó mundu hafa sjer eða sig, heldur skuli þá hafa *dem;* t. a. m.: *Damerne klædte dem paa*, en aptur hafa aðrir eigi viljað þýðast þá reglu, og að minnsta kosti er það almennt í tali, að hafa *sig*, þótt undirstöðuorð setningarinnar sje í fleirtölu, t. a. m.: *De begive sig ombord.* Ef *De* er haft til að þjera einhvern, er aldrei haft *sig* á eptir því, heldur ávallt *Dem*, t. a. m.: *De stöder Dem; De vover Dem altfor meget*; *Gjör Dem ingen Uleilighed.*

Í þess konar setningum, þar sem nafnháttur er hafður, bendir *sig* til undirstöðuorðs meginsetningarinnar, t. a. m.: *Han bad sin Ven, at laane sig tre Rigsdaler; Hun bad mig, at fölge sig hjem.* Opt getur það þó orðið tvírætt, til hvers *sig* bendi, t. a. m.: *Han bad ham at give sig Tid;* í þessu dœmi er það óljóst, hvort *sig* bendir á þann, sem bað, eða þann, sem beðinn var.

*Sin*, *sit*, *sine* svarar til undirstöðuorðsins í þeirri setningu, sem þau standa, þar sem vjer Íslendingar höfum sinn, sín, sitt; því að sje það orðið, er *sin* ætti að benda til, eigi undirstöðuorð í sömu setningunni, verður að hafa *hans*, *hendes*, *dens*, *dets* í stað þess; þannig, t. a. m.: *Manden befalede Konen, at hun skulde tage sine Börn med sig*; en *Manden befalede Konen, at hun skulde tage hans* (mannsins) *Börn med sig*; *Officeren gik til Generalen i hans Telt, og spurgte om sin Instrux.*

Þegar gjörandi setningarinnar er í fleirtölu, sem *sin* ætti að benda til, þá er það að minnsta kosti langalmennast, að hafa *deres* en eigi *sine*, þar sem Íslendingar hafa eignarfornafnið sinn; þannig t. a. m.: *De droge bort med deres* (eigi *sin*) *Eiendom*, *med alt deres* (eigi *sit*) *Gods*; *Alle toge deres* (eigi *sine*) *Vaaben med.* Þó segja sumir það rjett, að hafa eignarfornafnið *sin* í staðinn fyrir *deres*, þótt nafnið, sem það bendi til, sje í fleirt., enda finnst það og í bókum, einkum í fleirtölunni *sine*, t. a. m.: *Forældrene med sine Börn*; *De lovede at opfylde alle deres Forpligtelser.*

Ábendingarfornöfnin *denne* og *hiin* eru opt höfð þannig, að *denne* bendir til þess orðsins, er síðar stendur, en *hiin* til þess, er fyr stendur; t. a. m.: *Pompejus og Cæsar havde begge mange Tilhængere i Rom, hiin* (þ. e. *Pompejus*) *blandt Adelen, denne* (þ. e. *Cæsar*) *blandt Almuen.*

*Samme* er einatt haft í stað hinna persónulegu fornafna, og gjörir opt málið ljósara og hljómfegra, t. a. m.: *Jeg sender Dig en Bog med Bön om, at Du vil gjennemlæse samme.*

*Selv* er opt haft á undan nafni, eins og atviksorð, í staðinn fyrir *endog*, jafnvel, t. a. m.: *Selv Kvinder og Börn bleve ikke skaanede.* Það er og haft með raðartölum til að tákna fjöldann, t. a. m.: *Han kom selv tredie* (tveir auk hans).

Með því tilvísunar-orðið *som* eigi verður beygt, og *der* að eins verður haft sem gjörandi, þá gæti á stundum risið misskilningur af því, ef þau væru höfð, og er því ávallt haft *hvilken, hvilket, hvilke,* þegar svo stendur á, eða þegar fleiri nöfn eru, en eitt, sem fornafnið getur vísað til. Að öðru leyti er *hvilket* haft þá, þegar fornafnið vísar til undanfarinnar heillar setningar. Í þolanda og þiggjanda er *hvem* opt haft, þegar talað er um menn. Dæmi þessa er: *Jeg sendte Dig en Kasse tilligemed Bögerne, hvilken jeg haaber du har faaet.* Væri *som* haft hjer, væri óvíst, hvort það svaraði til *Kassen* eða *Bögerne. Voldene om Kjöbenhavn, hvilke* (ekki *som*) *Frederik den förste lod anlægge; Voldene om Kjöbenhavn, hvilken By Biskop Absalon anlagde. Han taler meget om at skrive Böger, hvilket ikke er saa let gjort som sagt. Det Menneske, med hvem jeg talte. Der* og *som* eru höfð hvort um sig eptir því, sem betur lætur í eyrum í hvert skipti.

Sleppa má opt tilvísunarfornafni, helzt í stuttum setningum, þegar þol. þess eða þiggj. skyldi hafa, t. a. m.: *Der ligger den Bog, jeg skrev,* f. *som jeg skrev. Der staaer Manden, jeg gav Bogen,* f. *som jeg gav Bogen.* Í gjöranda má því að eins sleppa tilvísunarfornafni, að atviksorðin *her* eða *der* fari á eptir, eða þolmynd sagnar sje höfð, og þiggj. sá, er persónu táknar, standi á undan sögninni t. a. m.: *Manden, der staaer* f. *som staaer*

*der, er min Ven. Manden, her var,* f. *som var her; Bogen, mig blev given, ligger der.*

þegar fyrirsetning stýrir tilvísunarfornafni eða spurningarfornafni, má greina fyrirsetninguna frá fornafninu, og setja hana síðast í setninguna, enda skal svo ávallt gjört, ef *som* er haft; líka má hafa tilsvarandi atviksorð í stað fornafnsins, og setja fyrirsetninguna saman við það, þegar talað er um dauða hluti; þannig t. a. m.: *Manden, af hvem du har faaet Bogen,* eða *som du har faaet Bogen af; Det er Manden, som vi talte om; Stolen, som jeg sad paa,* eða *hvorpaa jeg sad; Stedet, han kom fra,* eða *hvorfra han kom; Til hvem er det,* eða *Hvem er det til? Hvem er det fra? Hvis Ankomst tales der om?*

Spurningar-fornafnið *hvad* er opt haft eins og einkunn væri, ýmist með *for* á eptir, eða eintómt, t. a. m.: *Paa hvad Maade skeer det? Til hvad Priis er det? Hvad for Efterretninger bringer du?*

## 56. gr. Um sagnirnar.

Tala sagnarinnar er ávallt hin sama, og tala gjöranda setningar hverrar fyrir sig, að því einu undanskildu, að með *De* (= þjer) er sögnin sett í eintölu; þannig t. a. m.: *Jeg skriver? Vi skrive; Folkene, som vare med dig, ere her; Jeg troede ikke, at De var kommen.* Í daglegu tali er og opt höfð eintala sagnar, þótt gjörandi setningarinnar sje í fleirtölu.

Núlegur tími er einatt hafður í stað ókomins tíma, eins og í íslenzku, þar sem enginn misskilningur getur af því risið, t. a. m.: *Jeg reiser bort imorgen; Han kommer paa Torsdag,* og að öðru leyti eru tíðir sagna að mestu leyti hafðar, eins og í íslenzku, og þarf það efni því eigi mikillar útskýringar.

Eptir sagnirnar *vil, skal, tör, bör, maa, kan, lader, hörer* og *seer* er nafnháttur annara sagna hafður án þess að *at* fari á undan, og stundum líka eptir *bede,* og *byde;* t. a. m.: *Jeg vil gaae; Du skal gjöre det; Jeg saae ham komme; han bad mig komme,* f. *han bad mig at komme. Han böd mig gaae. Gider* er sett optast með sagnarbót-

inni. eins og geta í íslenzku, t. a. m.: *Jeg gad vidst, om det er sandt.* Stundum er það haft með nafnhætti, t. a. m.: *Jeg gider ikke skrive.*

Nafnháttur sagna er í dönsku víða þar hafður og á ýmsan hátt, þar sem honum annaðhvort eigi verður viðkomið, eða eigi á sama hátt og í íslenzku; til að mynda er það, þegar hann er hafður eins og nafn og fyrirsetning með, þar sem í íslenzku annaðhvort verður að skjóta fornafninu inn á eptir fyrirsetningunni, eða snúa setningunni við, t. a. m.: *Vi erhverve os Guds Velbehag ved at* (með því að) *være lydige*; *Ved at dvæle længer*; *Man er ikke sikker for at falde*; *Han er let at overtale* (það er hægt, að fá hann til þess, á sitt mál); *Han er god at arbeide for*; *Det er vanskeligt at skrive om.*

Þá er og nafnháttur gjörsagnar hafður í dönsku, þar sem Íslendingar hafa sögnina: verður og hluttekningar orð sagnar, eða í þess stað hluttekningarorð núlegs tíma, til að tákna með, að eitthvað verði gjört, t. a. m.: *Det er ikke til at gjöre* (það verður ekki gjört). *Denne Viin er ikke til at drikke* (þetta vín er ekki drekkandi). *Han er ikke til at udholde* (hann er óþolandi).

Hluttekningar-orðin hafa Danir miklu tíðar en Íslendingar, til að stytta málið, og tengja setningarnar betur saman; t. a. m. þar sem Íslendingar hafa tilvísunarfornafn, þá sleppa Danir tilvísunarfornafninu eða samtengingarfornafninn, en hafa þá hluttekningarorð sagnarinnar, sem á eptir fer; þannig t. a. m.: *Denne Mand, saa slet udrustet med Talegaver* (= *da han er* o. s. frv., eða *som er saa*, o. s. frv.), *duer ikke til Taler.*

Hluttekningar orð núlegs tíma er stundum haft í þolsagnarmerkingu, t. a. m.: *blæsende Instrument* (hljóðfæri, sem blásið er á); *Mit underhavende Mandskab* (þeir sem jeg á yfir að segja).

Opt má draga afleidda setningu saman við beina setningu, og gjöra úr eina setningu, með því móti að hafa þolmynd þeirrar sagnar, er áður var í hinni beinu setningu og gjöranda hinnar afleiddu setningar, t. a. m.: *Man tilstaaer, at Beskyldningen er ugrundet* = *Beskyldningen tilstaaes at være ugrundet. Man formoder, at han kommer hjem i Morgen* = *Han formodes at komme hjem i Morgen.*

## 57. gr. Um atviksorð, fyrirsetningar og samtengingarorð.

*Ja* er þá haft, þegar svarað er upp á þær spurningar, þar sem ekkert neitunarorð er í, t. a. m.: *Er du der?* „*Ja*". Stundum er *ja* haft, þar sem Íslendingar hafa: hvað meira er, eða eitthvað því um líkt, t. a. m.: *Han bad mig, ja bönfaldt mig endog med Taarer.* Á hinn bóginn er *jo* haft til að svara upp á þær spurningar, þar sem neitun eða efi er í, t. a. m.: *Kommer du ikke i Morgen?* „*Jo*". *Har du aldrig været her för?* „*Jo, to Gange.*" Sömuleiðis er *jo* haft í afleiddum tilvísunarsetningum, þegar eitthvert neitunarorð eða einhver efasemd felst í hinni beinu setningu, þegar eins og útibyrgja á allan efa, t. a. m.: *Jeg tvivler ikke om, at han jo kommer* (að hann komi); *Der er ingen, som jo önsker ham alt Godt* (sem eigi árni honum alls góðs).

*Fra* og *til*, og stundum *hos* setjast með eiganda, þegar maðurinn er nefndur í staðinn fyrir heimili hans, t. a. m.: *Han kom fra Snedkerens og gik til Smedens,* og er þá eiginlega *Huus* eða eitthvert þess konar orð undirskilið (samanber í fornri íslenzku *at* með eiganda, t. a. m.: skyldi boð vera at Marðar, Njála. Hèr skyldi eigi minna drekka, en at Bergönundar, Egla). Auk þess eru þessar fyrirsetningar hafðar með eig. í ýmsum orðtækjum, t. a. m.: *at gaae til, komme fra Alters. Bonden tager til Torvs*; *at gaae, sidde til Bords*; *Gaae til Sengs, Skyde til Maals*; *Faae til Livs*; *At gaae til Værks*; *At spörge en til Raads*; *At være til Alters*; *At være til Sinds*; *At gjöre sig ud til Beens*; *At gaae, sidde til Bords*; *At være til Huse* (til húsa) *hos nogen,* o. s. frv.

Til að tákna með hinn nærverandi tíma er haft *i*, t. a. m.: *I Aar*; *i Dag*; sömuleiðis er *i* haft til að tákna hinn ókomna tíma, t. a. m.: *I Aften* (í kveld); *i Morgen* (á morgun); en með vikudögunum er haft *paa*, t. a. m. *Paa Söndag*; *Paa Mandag*; *Paa Tirsdag* (á sunnudaginn, o. s. frv., er kemur), o. s. frv. En þegar tákna skal hinn umliðna tímann, þá er haft *i* með vikudögunum, og hafðnr eigandi nafnsins, t. a. m.: *I Söndags*, *i Mandags*, *i Tirsdags*, *i Formiddags*, *i Eftermiddags.* Í *Morgen* og *Aften* fellur *n* í burt í þessu sambandi, t. a. m.:

*I Morges* (í morgun); *i Aftes* (í gærkveldi). *I Nat* merkir bæði í nótt, er var, og í nótt, sem kemur.

Ýmsar fyrirsetningar má setja hvort sem vill fyrir eða eptir þau orð, er þær stýra, t. a. m.: *Han gik mig forbi,* eða *forbi mig.* Þó eru þær sumar, er eigi verða settar fyrir aptan það orð, er þær stýra, og eru þær helztar:

*bag,* að baki;
*foran,* á undan;
*formedelst,* vegna;
*fremfor,* fremur;
*henimod,* fram undir;
*ifölge,* samkvæmt;
*inden,* innan;
*indenfor,* fyrir innan;
*nedenfor,* fyrir neðan;
*ovenfor,* fyrir ofan;
*samt,* ásamt með;
*siden,* síðan;
*tilligemed,* ásamt með;
*trods,* þrátt fyrir;
*uden,* án;
*udenfor,* fyrir utan.

Af samtengingarorðum þeim, er tengja saman tvær setningar, og sitt samtengingarorðið er haft í hvorri setningunni, eru þau, sem nú skulu greind, hin algengustu:

*baade — og* / *saavel — som* } bæði — og;
*saa (stor) — som,* eins — og;
*ikke blot* / *ikke alene* } *— men ogsaa,* ekki að eins — heldur líka;
*jo — desto* eða *des,* / *jo* } því — því;
*saa meget desto — som,* því miklu — sem;
*om — eller,* hvort — eða;
*enten — eller,* annaðhvort — eða;
*hverken — eller, ikke heller,* hvorki — nje;
*vel — men,* reyndar — en;
*deels — deels,* að nokkru leyti — að nokkru leyti;
*da — saa,* þar eð — þá;
*ihvorvel* / *skjöndt* } *— (saa) dog,* jafnvel þótt — þá samt;
*for saa vidt som — for saa vidt,* að því leyti sem — að því leyti.

